strid hardt ad sumum; hann skipadi biskupa og klerka um ríki sitt, lét reisa skóla og kyrkjur, og fekk til þeirra saungmenn og orgelleikara frá páfa. Hafdi hann og jafnan med sér margt lærdra manna, má einkum telja Alkúin, enskan múnk, ágætan mann og vel lærdsan. Sjálfur idkadi keisarinn vísindi og lærdi ad skrifa á fullordins alldri, því fadir hans hafdi ekki haldid honum til slíkra starfa. Múnka í klaustrunum hvatti hann til bókmenta, og skrifudu þeir þar margar fornbækur Grikkja og Rómverja er annars hefdu glatast med øllu. Þegar keisari fann ad skammt mundi eptir æfi sinnar, kalladi hann Lodvík son sinn á sinn fund, lét hann sjálfan setja Kórónu á høfud sér, beiddi hann óttast Gud og gæta skyldu sinnar vid allar stéttir. Ari sídar (814) tók Karl sótt mikla þá er hann leiddi til bana; var hann þá tveim vetrum meir enn sjøtugur, en alls hafdi hann setid ad ríkjum 46 vetur.

Lodvík (er kalladur er hinn trúrækni) son Karls mikla, tók ríki allt eptir fødur sinn. hann var gódmenni mikid en atkvæda lítill, og átti í miklum deilum vid sonu sína Lótar, Lodvík og Karl, urdu svo mikil brøgd ad því, ad þeir ráku hann tvisvar frá voldum. Hann deydi 840. Børdust þeir brædur þá sín í millum, og sømdu loks frid í Verdun (843), var þá skipt enu frakkneska einvaldsdæmi í þrjú ríki: Frakkland, Þýdskaland og Italíu. Afkomendur Karls mikla hafa menn nefnt Karlúnga (Karolinger), voru þeir allir dádlitlir menn, og hnignadi

því ríkjum þeirra øllum. Sú ætt dó út í Frakklandi með Lodviki hinum lata 987.

## Frá Nordmønnum og Nordurløndum í fornøld.

Ein af þjóðum þeim, er á døgum Karlúnga herjuðu um vesturlønd Nordurálfu, voru Nordmenn. Voru þeir komnir nordan af Skandínavíu (þ. e. Noregi, Svíþjóð og Danmørku), þekktu aðrar þjóðir lítið til þeirra landa leingi framan af øldum. Nokkru fyrir Krists burð, að því er fróðir menn segja, kom Odinn austan yfir Vanakvísl til Nordurlanda, braust þar til valda, og flutti þángað nýjan átrúnað. Blótuðu menn Odinn eptir dauða hans. Það var eitt í trú Odinns, að hreysti er talin fremst allra dygða. Hraustir menn skulu eptir dauðann koma til Odinns í Valhøllu, eta galtar flesk og drekka mjøð, berjast og falla hvørir fyrir øðrum, og lifna þó við aptur. Illir menn og ragir skulu fara til Niflheims, og þola þorsta og húngur. En um síðir skal þó bæði Valhøll og Niflheimur undir lok líða. Skulu þá góðir menn og siðlátir byggja á Gimli hjá Alfødur, en vondir menn fara til Nástrandar. Menn blótuðu og ýmsa høfðíngja þá er með Odni komu, svo sem Þór, Þrumuguð, hann bar hamarinn Mjølni, hann er allt nýtur. Týr, hermannaguð. Baldur, réttlætisguð. Frygg, konu Odinns. Freyu, ástargyðju, og fl. Trúarbrøgð Odinns efldu menn mjøg til hreysti; áttu þeir laungum í orrustum og fóru opt í víkíng. Þá voru

mörg ríki og smá á Norðurlöndum, þó var það til að þau sameinuðust í stærri ríki. Þannig náði Dan mikilláti, Skáneyar konúngur, undir sig nálega allri Danmörku, fekk hann sumt með Drottníngu sinni, en sumt vann hann með vopnum. Hann kom á heim síðum, að menn voru lagðir í haugá. Einn af eptirkomendum hans var Hrólfur Kraki, er hann frægur orðinn af afreks verkum sínum og dauða. Ívar víðfaðmi lagði undir sig, með svikum og ófriði, því nær allt Svíaveldi og Danmörku; réðu eptirkomendur hans: Haraldur Hilditönn, Sigurður Hríngur og Ragnar Loðbrók síðan fyrir þessum löndum. Ragnar fell á Englandi, en ríkið skiptist með sonum hans. Helzt enn við hernaður víkinga í Danmörku og Noregi, allt til þess er Gormur hinn gamli lagði undir sig öll smá ríki í Danmörku, en Haraldur hinn hárfagri, í Noregi (nálægt 900 á. e. Kr.): Haraldur lagði undir sig eður felldi í orrustum 31 fylkiskonúng; naut hann mjög að fulltingis Guttorms hertoga, móðurbróður síns, og jarlanna: Rögnvaldar mærajarls, og Hákonar Grjótgarðssonar. Það er mælt að ástin hafi meðfram knúið Harald til slíkra stórvirkja. Svo bar til einhverju sinni, er Haraldur var að jólaveitslu einni, að hann leit meyu þá er Ragna hét. Hún var kvenna fríðust. Lagði konúngur ástarhug á hana, en henni var það fjærri skapi. Lézt hann þá mundi taka hana nauðuga, enn hún kvað honum sæmra að ogna smákonúngum þeim er Noregur væri þakinn af. Streingdi hann þá þess heit að hætta ekki fyrr enn hann hefði eignast

allan Noreg. Sagt er og, ad hann hafi bedid til handa sér Gydu, dóttur Eiríks konúngs af Hördalandi, og heitstreingt þá, ad ekki skyldi hann skéra hár sitt né kemba, fyrr enn hann hefdi lagt undir sig allan Noreg. Tíu vetrum seinna hafdi Haraldur konúngur eignast allan Noreg, og þá skar Rögnvaldur jarl hár hans, gaf jarl honum kenníngar nafn, og kalladi Harald hinn hárfagra, ádur var hann kalladur Lúfa.

Margir af ættum enna fornu smá konúnga stukku úr landi fyrir ofríki Haralds konúngs, og leitudu annara landa. Tóku sumir sér bólfestu á Færeyum, en adrir héldu vestur um haf og fundu Ísland (861 e. Kr. b.), og bygdi Ingólfur Arnason þar fyrstur manna (874). Frá Íslandi fannst sídan Grænland (982), og Vínland nordan á Vesturálfu (Ameríku). Um þær mundir herjudu og Nordmenn um Frakklands strendur, og gjördu þar mörg spillvirki, stód Frökkum svo mikill ótti af víkíngum þessum, ad þeir bádu í kyrkjum sínum: frelsa oss Drottinn frá ædi Nordmanna! (A furore Normannorum libera nos o domine!). Loksins tóku þeir sér bólfestu á Frakklandi undir herstjórn Gaungu Hrólfs; segja menn ad hann hafi verid kalladur svo, fyrir því ad hann var svo mikill vexti, ad einginn hestur mátti bera hann. Hrólfur þraungvadi Karli einfalda Frakka konúngi til ad láta laust vid sig fylki þad, er Nevstría hét, og sídan var kallad Normandía, eptir þeim Hrólfi. Hrólfur gékk ad eiga dóttur Karls konúngs. Frá Normandíu hertogum eru Englands konúngar komnir, þeir er leingi sátu

þar að völdum. Var Vilhjálmur Bastarður þeirra fyrstur. Norðmenn náðu og fótfestu á Italíu, komu þeir fyrst þángað sem pílagrímar, og feingu landsmenn þá til liðs við sig móti Grikkjakeisurum, en að lokum náðu þeir undir sig allri Suður-Italíu (Neðra Vallandi) og Sikiley. Helztu foríngjar þeirra voru Tankreds synir, 12 að tölu, eru þeir Hróbjartur Guiskarður og Róger þeirra nafnkéndastir. Hróbjartur setti á stofn hertogadæmi það, er Apúlía nefndist, en Róger, greifadæmið Sikiley. Þessi lönd lagði Róger, annar með því nafni, undir sig, og kallaði konúngs ríki.

## Frá því er Kristni kom til Norðurlanda.

Lángir tímar voru liðnir frá því er suður búar Evrópu höfðu tekið Kristna trú, til þess er hún var boðuð hér á Norðurlöndum. Blakk-Haraldur jarl lét skírast, og flutti með sér til Jótlands (826 á. e. Kr.). Ansgaríus múnk. En kristninni gekk þó seint að festa rætur í landinu, því menn vildu með eingu móti við henni taka. Gormur hinn gamli Danakonúngur, hélt mjög fram trú Óðinns, og leitaðist drottning hans, Þyri Danmarkarbót við á marga vegu, að koma honum af þeim átrúnaði. Ottó keisari hinn mikli þraungvaði Haraldi konúngi Gormssyni til að taka við kristni. Var hann skírður og ættmenn hans af Poppa biskupi. Fékk biskup þessi komið mörgum til að játast undir Krists trú, með jarteiknum þeim er hann gjörði; hann bar glóanda járn eður trað, og sak-

adi ekki, og tóku þá heidnir menn vid trú hans. Sveinn konúngur Tjúguskégg, sonur Haralds konúngs, trúdi ýmist á Krist edur Odinn, og þó öllu heldur á Odinn. Þá vóru Jómsvíkingar uppi og bjuggu í Jómsborg á Vindlandi. Höfdu þeir sína egin stjórn og lög, er Pálnatóki setti þeim. Jómsvíkingar tóku Svein konúng höndum, og vann hann sér til lausnar, ad greida þeim grid fé, og lofa ad hefna sín ekki. Sveinn konúngur var ad falli Olafs konúngs Tryggvasonar, med þeim, Olafi sænska stjúpsyni sínum, og Eiríki jarli Hákonarsyni, mági sínum. Þeir börd-ust vid Svoldur, 1000 á. e. Kr. Ad lyktum fór Sveinn konúngur med her sinn vestur til Englands, átti þar margar orrustur vid Adalráð konúng Játgeirsson. Vann Sveinn mestan hlut Englands og andadist ad því, 1014 á. e. Kr. Knútur son hans lagdi undir sig bædi England og Noreg, og má telja ad á hans dögum yrdi kristni fyrst algjörlega lögleidd í Danmörku.

Í Noregi voru menn enn ófúsari ad taka vid kristni enn í Danmörku. Hákon Adalsteinsfóstri son Haraldar ens hárfagra, ólst upp á Englandi, og hafdi kristnast þar. Og sem hann var kominn til ríkis í Noregi, en Eiríkur konúngur blódöxi bródir hans var rekinn úr landi, leitadist hann vid ad kristna landsfólkid; en honum vard lítid ágeingt, stódu menn fast á móti, og þótt hann væri enn ágætasti konúngur og gjördi á mörgu betri skipan, vard hann óvinsæll fyrir sakir kristni bodsins. Hákon konúngur setti Gula-

þíngs løg og Frostaþíngs løg med rádum viturra manna. Hann setti og þad í løgum, ad vita skyldi gjøra á háfum fjøllum, svo hvørn mætti sjá frá ødrum, þegar útlendur her kom ad landi. Segja menn ad á 7 nóttum færi herbodid frá enum sydsta vita, í ena nyrzta þínghá á Hálogalandi. Haraldur konúngur Gormsson efldi sonu Eiríks blódøxar móti Hákoni Adalsteinsfóstra. Børdust Eiríks synir vid hann í Stord (961). Vard Hákon sár til ólífis og andadist litlu sídar. Tók Haraldur Gráfeldur, Eiríksson ríki í Noregi eptir hann, kristnadist landsfólkid lítt á hans døgum, og Hákonar jarls Sigurdarsonar. Hafdi Hákon jarl ad sønnu látid skírast, og naudgadi Ottó keisari honum til þess, en jafnskjótt og hann kom aptur til Noregs, kastadi hann trúnni, og blótadi heidin god. Ójafnadur sá er Hákon jarl sýndi á ofanverdum døgum ríkisstjórnar sinnar, gjørdi hann mjøg óvinsælan, vard Olafi Tryggvasyni því hægra fyrir, ad komast þar til ríkis. Hákon jarl var myrdtur í jardhúsi einu, af þræli sínum, er Karkur hét (995). Olafur hafdi tekid vid kristni, er hann var í hernadi vestur á Irlandi, vildi hann nú þraungva landsfólki í Noregi til ad taka þá trú, og refsadi þeim øllum þúnglega er eigi vildu kristnast. Olafur konúngur sendi Þangbrand prest til Islands (997), til ad boda þar kristni, létu nokkrir skírast, þó voru hinir fleiri er í móti mæltu. Þrem árum sídar var kristni løgtekin á alþíngi. Sigmundur Brestisson kristnadi Færeyar, ad bodi Olafs konúngs, verri sídar

enn Þángbrandur fór til Íslands. Olafur konúngur sat svo skamma stund að völdum, að honum vannst ekki tími til að kristna allan Noreg. Olafur hafði övíngast við Svein konúng Tjúguskegg, fyrir þá sök að hann hafði feingið Þyri systur Sveins að honum nauðigum. Auk þess eggjaði Sigríður Svía drottníng hin stórráða, Svein til hefnda, þóktist hún eiga Olafi fyrir grátt að gjalda, þar sem hann hafði kallað hana, afgamla og hundheiðna og lostið hana í andlit með glófa sínum. En nú var hún gift Sveini konúngi. Gjörði hann nú fèlag við Olaf Svíakonúng, son Sigríðar Stórráðu, og Eiríc jarl Hákonarson, móti Olafi Tryggvasyni. Olafur konúngur hafði farið suður til Vindlands, að heimta eignir Þyri drottníngar. Hann var á skipi því, er Ormurinn lángi hét, það var allra skipa mest og skrautlegast, hafði konúngur fleiri skip í þeirri ferð. Konúngarnir sátu fyrir honum við Svoldur, varð þar en harðasta orrusta. Einar Þambarskèlfir var með Olafi konúngi á Orminum, hann skaut af boga, og var allra manna harðskeytastur. Einar lagði ör á streing og vildi skjóta að Eiríki jarli, þá skaut maður úr liði jarls sundur bogann milli handa Einars; varð þá brestur hár. Hvað brast þar svo hátt? mælti konúngur. Einar svaraði: Noregur úr hendi þèr! Um síðir varð Ormurinn hroðinn, hljóp Olafur konúngur fyrir borð, og hefir eigi með sanni til hans spurst síðan, (1000 á. e. Kr.). Nokkru síðar varð Olafur Haraldsson einvalds konúngur að öllum Noregi, leitaðist hann við, eins og gjört hafði Olafur Tryggvason,

ad kristna landid, og þrengva mönnum til réttrar trús ar. Undu margir því illa, og fóru úr landi til Knúts Danakonúngs ens ríka, ófridadist þá med þeim Knúti og Olafi. Fór Knútur med her óvígan til Noregs, og flýdi Olafur konúngur þá landid, en kom aptur í Nor; eg tveim vetrum sídar, og átti þá orrustu mikla á Stiklastødum vid lenda menn. (1030). Þar féll Olafur konúngur. Var hann kalladur hinn helgi, og skrínlagdur í Nidarósi, høfdu Nordmenn sídan áheit vid hann, og segja þeir margar fagrar jarteiknir yrdu ad hans helgi. Eptir þá tíd fékk kristni litla mót: stødu af heidnum mønnum í Noregi.

Í Svíþjód hafdi þegar Ansgaríus múnkur bod: ad kristni, en fyrst á døgum Olafs konúngs Eiríks: sonar, vard þeirri trú framgeingt, því konúngur sjálf: ur tók vid kristni. Hafdi hann einkum til þess klerka enska ad breida kristni út um landid, hét einn þeirra Jón Sigurdur. Þó hélzt enn vid heidni þar í landi til þess er Ingi konúngur Steinkélsson (ná: lægt 1100 e. Kr.) lét brjóta hof Odins, ad Upp: sølum, vard þá Krists trú yfirsterkari. Voru ávextir hennar, þegar á allt er litid, gódir, þó því verdi ekki neitad ad trúin eins og hún var þá, væri ordin mjøg ólík því er Kristur kénndi. Krøfdust menn einkum hlýdni vid klerkana, og ad øllum ænum helgu sidum væri nákvæmlega gaumur géfinn.

## Frá Knúti konúngi enum ríka.

Í þann tíma er Nordmenn herjudu á Sudur:

land, og tóku sér þau hálfann, var sá konúngur uppi hér á nordurlöndum, er þau lagdi flest undir sig. Sveinn Tjúguskegg, son Haralds konúngs Blátannar, vann mestan hlut Englands, en andadist ádur hann gæti lagt þad land. allt undir sig, hugdu þá Englismenn gott til ad brjótast undan Dönum, er Knútur son Sveins konúngs var barn ad aldri. Tóku þeir þá til konúngs yfir sig Adalrád, er ádur hafdi þar konúngur verid, og frá ríkjum rekinn. Hann var frændi af Alfredi hinum mikla Engla konúngi. Vard Knútur ad rýma England fyrir Adalrádi, en ádur hann fór úr landi, lét hann skéra nef og eyru af mönnum þeim er hann hafdi í gíslíngu, og sleppti þeim svo á land upp, var þad hid mesta grimdarverk, og sýnir skaplyndi manna á þeim tímum. Knútur hélt til Danmerkur, og redi þá Haraldur brodir hans þar ríkjum. Haraldur fékk honum mörg skip, fór Knútur þá brádum til Englands, og átti orrustur margar og hardar vid Játmund járnsídu, son Adalráds konúngs. Var Játmundur hinn mesti kappi. En med svikum Alreks (edur Eiríks) Strjónu, fékk Knútur sigur. Skiptu þeir Játmundur þá ríki med sér. En litlu eptir þad, drap Alrekur Strjóna Játmund konúng, og tók til þess fé af Knúti. En sem Knútur hafdi lagt undir sig England, gjördist hann mildari í stjórn sinni, enn hann hafdi ádur verid. Gjördi hann eingan mun danskra manna og enskra, og gekk ad eiga Emmu drottníngu, ekkju Adalráds konúngs; gjördi Knútur þad til [illegible] enskum mönnum. Hann hafdi jafnan [illegible] Herlid

á máli á Englandi, (þinglid), og setti því hann lag er Vidurlagsréttur heitir, reisti kyrkjur og efldi kristna trú, kómst hann vid það í mikla kærleika vid klerkana er þá voru ærid voldugir. Eptir andlát Haraldar bródur síns erfdi Knútur Dana ríki. Hann lagdi og Noreg undir sig, hafdi hann ádur med ardæk sínum og fégjöfum svikid marga höfdíngja undan Olafi helga. Knútur konúngur andadist á Englandi, 7 vetrum eptir það hann lagdi Noreg undir sig (1035 e. Kr.). Hann hefir verid kalladur Knútur ríki, edur hinn mikli. En margt hafdist hann það ad, sem ordid hefir fyrir lasti manna, og mjög ad makleglæikum. Er það eitt til merkis, hvörsu honum fórst til Ulfs jarls Þorgilssonar Sprakaleggs. Ulfur átti Astrídi systur Knúts konúngs, og setti Knútur hann eitt sinn eptir til landgæzlu í Danmörku, medan hann sjálfur var á Englandi. Þá gjördust Svía og Noregs konúngar til ad herja á Danmörku, og lögdu undir sig Sjáland. Þókti Dönum lángt ad bída þess ad Knútur konúngur kæmi aptur, og rédi Ulfur jarl þeim ad taka Hördaknút, son Knúts, til konúngs yfir sig. Litlu sídar kémur Knútur heim, og mislíkar stórum þetta fyrirtæki, en hugsar þó ad ekki skuli hann hefna sín ad sinni. Rekur hann þá fyrst óvini sína úr landi, og berdist vid þá í ánni helgu, og komst þar í mikla mannraun, en þá veitti Ulfur jarl honum lid. Snéri konúngur sídan til Danmerkur, og baud Ulfur jarl honum til sín, til Hróarskéldu, og hugdi ad nú mundi hann sáttur. Knútur þág það jarls og kom,

en var hljódur mjøg og fámálugur. Jarl baud honum tebla skák vid sig, en yfir tablinu reis sundurþykki milli þeirra. Stód jarl upp, og vildi burt gánga. Þá mælti konúngur: Flýr þú nú Ulfur ragi? Ekki kalladir þú mig ragan, mælti jarl, er Danir flýdu sem hundar, vid ána helgu. Konúngur reiddist ordum jarls, og lét vega hann daginn eptir. Vard hann ad láta miklar fébætur koma fyrir víg jarls, bædi til Hróarskeldu kyrkju, og til Astrídar systur sinnar. Eptir andlát Knúts konúngs, skiptist ríkid med sonum hans. Nordmenn brutust undan Dønum, ádur Knútur andadist; vard Sveinn Knútsson ad flýa þadan, en Magnús gódi, sonur Olafs helga tekinn til ríkis. Haraldur Engla konúngur, son Knúts ríka andadist 1040, tók þá Hørda-Knútur England, og rikti yfir 2 ár. En er hann andadist var Játvardur Adalrádsson til konúngs tekinn yfir Englandi, eignudust Dana konúngar aldrei England sídan. Danir komust um tíma undir Magnús konúng góda, en eptir dauda hans, tók ríki í Danmørku Sveinn, son Ulfs jarls og Astrídar systur Knúts.

## Frá Páfaveldi, og frá Krossleidángrum.

Fyrir sakir ørleika og fégjafa ýmsra høfdíngja, einkum Pipíns konúngs og Karls mikla, urdu enir rómversku biskupar (Páfar ødru nafni), ákaflega voldugir. Med áliti því sem trúin fékk þeim í hendur, gafst þeim brádum færi á ad setja jafnvel konúngunum løg. En einginn var því líkur sem Gregoríus

hinn sjøundi, hann hefir verid ágeingastur allra Páfa og umsvifamestur. Gjørdi þad eigi allstíd til ad styrkja krøfur þeirra, ad þeir søgdust vera jarlar Krists hér á jørdu, og eptirkomendur Péturs postula. Þeir komu einnig þeirri trú inn hjá kristnum mønnum, ad þeir væru óbrigdulir í øllum hlutum, og þó verk þeirra væru svo ótrúleg og ókristileg sem allir vita, þá var þad lengi, ádur bædi tignir menn og ótignir sæu hrekki þeirra. – Gregoríus leitadist vid ad adgreina klerkana sem mest frá ødrum stéttum, og láta þeim einúngis vera annt um ad efla hag kyrkjunnar, og fyrir því bannadi hann þeim ad kvongast. Til þess ad audga kyrkjur og múnka fundu Páfarnir upp lærdómana um hreinsunareldinn, skyldu sálir manna vada þann eld til hreinsunar sér, ádur þær kæmust í himnaríki. En því fyrr komust sálirnar úr eldinum, sem klerkar lásu fleiri messur yfir þeim, og feingu meira fé fyrir. Gáfu og margir fyrir sálu sinni stórfé til klaustra og múnka. Sá madur sem einna helzt mátti kénna á ofríki páfanna, var Hinrik 4di Þýdskalands keisari. Hann vildi ráda nokkru med í andlegum efnum. Um þær mundir var sem mestur kurr í landinu, þókti mønnum keisarinn gjørast rádríkur, og þoldu illa yfirgáng hans. Leitudu þá margir menn, einkum af Saxlandi, trausts til Gregoríusar Páfa. Þókti honum þad sem best ad hendi bera, og bannfærdi keisara, gaf hann med þeirri skipan þegna hans lausa allra mála vid hann. Kreppti þá svo mjøg ad keisara, ad hann vard ad gánga sudur til páfa, og standa berhøfdadur og berfættur nokkra

daga fyrir utan hallardyr hans, ádur hann feíngi hann til vidtals. Þó kom þar, ad Hinrik keisari hefndi sín, vard páfi ad flýa, og leita á nádir Nordmanna á Nedra Vallandi, og andadist í Salernóborg (1085 e. Kr.). Gregóríus var vinur mikill Matthildar af Tóskana, markgreifa konu, hún arfleiddi páfastól ad öllum eignum sínum. Páfum þeim, er komu eptir Gregoríus 7da, var ekki betur í þokka vid Hinrik 4da, enn Gregoríusi hafdi verid, æsku þeir jafnvel sonu keisara móti honum, svo einn þeirra, Hinrik 5ti, rak födur sinn frá ríki, og dó hann í miklu volædi.

Á dögum Hinriks keisara ens 4da, hófust enir nafnfrægu Krossleidángrar. Kristnir menn höfdu um lánga æfi farid pílagrímsferdar til Landsins helga (Palæstína), til ad efla med sér sanna gudrækni. Létu Serkir er þá bjuggu í landinu, þá fara ferda sinna í nádum. En eptir ad Tyrkir tóku Jórsalaborg, gjördu þeir kristnum mönnum margt til skapraunar, og fóru illa med þá. Höfdu menn þegar ádur kvartad yfir því, en Pétur múnkur frá Amiens, er þá kom úr sudurgaungu, vard fyrstur til ad kveda upp vid Urbanus páfa hinn annan, ad ná landinu helga úr höndum heidingja. Páfi stefndi til þings í Klermont á Fracklandi, urdu margir til, bædi Frakkar og adrir, ad heita förinni. Þeir sem skuldbundu sig til þeirrar ferdar, kölludust: Krossfarar, og förin sjálf: Krossleidángur, fyrir því ad raudur kross var festur á herdar öllum þeim er þá fór fóru. Þóktust menn med þessu fyrirtæki, ekki einúngis eiga vísan

mikinn jardneskan ávinning, heldur og eilífa sælu annars heims. Í vordøgum 1096, hófst enn fyrsti leidangur, var þad enn mesti mannfjøldi, allt ad 150,000, bædi konur og karlar, gamlir menn og úngir. Gjørdist Pétur múnkur fyrirlidi þeirra, og héldu nú af stad til landsins helga. En á leidinni létu þeir vída greipar sópa yfir eignir manna, og høfdu ýmsan ójøfnud í frammi; urdu þá opt orrustur og mannavíg, og loksins komust einar 3000; af þessum mikla her aptur til Miklagards.

Betur gekk ødrum herflokki, hérumbil 90,000, sem lagdi af stad á álidnu sumri hid sama ár. Fyrir þeim réd kappinn Gottfredur af Bouillon, fylgdu honum margir høfdingar af Frakklandi. Hélt Gottfredur lidi sínu austur um Þýzkaland, svo um Ungaraland og sudur á Grikkland, og fór jafnan med fridi. Þar komu til móts vid hann ýmsir greifar og hertogar med miklu lidi; gétur hér einkum Húgós, bródur Filippusar 1ta Frakka konungs, Raimunds greifa af Tólóse, og Róbjartar Nordmandíu hertoga, sonar Vilhjálms Bastardar Engla konungs. Herinn komst loks alla leid út til Jórsala, og nádi borginni eptir harda orrustu, úr høndum Tyrkja (1099). Var nú Gottfredur til konungs tekinn yfir Jórsali, en andadist litlu sídar (1100). Tók þá Baldvin, bródir Gottfredar vid yfirrádunum kristinna manna í Jórsalaborg; var nú lid þeirra stórum fækkad, en Tyrkir héldu løndum øllum umhverfis, og gjørdu tídum árásir á þá. Alexius Komnenus, Miklagards keisari;

gafst kristnum heldur ekki sem best. Þá sú hjálp sem þeir áttu von á vard því ad koma nordan úr Evrópu.

Nú gjørdust fleiri til ad fara Jórsalaferd. Ár 1147 fóru þeir Lodvík Frakka konúngur enn sjøundi, og Konrád keisari enn þridji, med 200 þúsundir manns, eptir áeggjan Bernhardar ábóta af Klairveaux (Klervó). En Grikkja keisari, sultur, drepsótt og sverd Tyrkja eyddi ad mestu leiti þeim enum mikla her. Snéru fyrirlidarnir vid svo búid heim aptur, og undu ílla vid.

Fjørutýgi árum sídar barst sú fregn utan af Jórsalalandi, ad konúngur sá er Saladín hét, og réd fyrir Egyptalandi hefdi tekid Jórsalaborg. Hann var enn mesti hermadur, og þó mildur høfdíngi og veglyndur. Þá bjuggust þrír enir volduguftu konúngar í Nordurálfu, ad fara Jórsalaferd, og ná aptur enni helgu borg. Þessir voru: Fridrekur 1ti raudskéggur (Barbarossa) Þýdsskalands keisari, Ríkardur ljónshjarta Engla konúngur, og Filippus Agústus Frakka konúngur. Fridrekur keisari lagdi fyrstur af stad, og fór landveg, en druknadi í á einni á Sýrlandi, ádur hann komst alla leid. En konúngarnir fóru sjóleidis, og fyrr enn þeir nædu landi fyrir austan haf, kom sundurþykki mikid med hvøritveggjum, er jókst enn meir er þeir komu til Jórsalalands. Þó gafst Jórsalaborg upp fyrir þeim. Snéri Filippus konúngur brádum heim aptur, en hét Ríkardi konúngi ádur, ad láta lønd hans í fridi medan hann væri burtu. Þó rauf hann þad heit, og vard Ríkardur ad semja frid

vid Saladín, til ad komast sem skjótast heim og undir land sín. En á heimleid hraktist hann fyrir ofvidri inná Feneyabotn, og rédi þá af ad fara huldu höfdi nordur um Þýdskaland. Þá voru nokkrir sem þektu konúng, og lét Leópold Austurríkis hertogi taka hann höndum, því honum þókti hann hafa gjört á hluta sinn sudrá Jórsalalandi. Seldi hertoginn hann Hinriki keisara 6ta í hendur, er loks lét hann lausan móti ærnu fégjaldi (1194).

Nokkru sídar geingu í félag margir menn af Frakklandi og úr Feneyum, og krossudust til Jórsalaferdar, var Dandúló rádismadur í Feneyum, gamall madur og blindur, fyrirlidi þeirra. En í stad þess ad halda áfram ferdinni til Jórsala, skárust þeir í deyldir þær, er um þær mundir geingu í Miklagardi, og tóku loks borgina (1204), og settu þar til keisara Baldvin af Flæmíngjalandi (Flandern). Stód þad ríki um 60 ára tíma, og var kallad hid latínska, en þá nádu Grikkir því aptur undir sig.

Lodvík Frakka konúngur enn 9di tókst einnig á hendur ad vinna aptur landid helga úr höndum Tyrkja, vildi hann rádast á þá úr Egyptalandi, og gekk allvel í fyrstu, og lagdi undir sig Damiettu borg, en eptir þad vard honum allt erfidara; sýktist þá lid hans og dó mestur hluti þess. Konúngur var sjálfur tekinn höndum, og vard ad greidaærid fé til lausnar sér, kom hann svo eptir 6 ár aptur í ríki sitt (1254). En þó konúngi misheppnadist svo þessi för, lét hann telja sig á ad fara herferd til Túnis á Afríku ströndum, og

fátækt, skírlífi og hlýdni vid kyrkjulögin; en af gjöfum manna urdu þeir svo audugir og voldugir, ad margir litu til þeirra öfundar auga, og Filippusi frída, Frakka konúngi, tókst loks ad eyda þeim med rángri sakargift; — Enir þýdsku riddarar, edur Maríu riddarar (frá 1190), voru þegar þeir fóru af landinu helga, kvaddir af Konrádi af Masóvíu pólskum hertoga, til lids móti heidnum mönnum í Prússalöndum (Preussen). Gjördu þá Sverdriddarar félagskap vid þá, og unnu Prússaland af heidnum mönnum, og kristnudu þá eptir 53 ára styrjaldir. Riddarar þessir höfdu adsetur sitt í Maríuborg. Sídan mistu þeir Prússaland, en feingu aptur vídlendi mikid í Þýdskalandi, til þess er Napóleon keisari tók af félag þeirra.

## Frá Valdimari 1ta og Valdimari 2rum í Danmörku.

Eptir andlát Sveins konúngs Ástrídarsonar, ríktu synir hans 5 hver af ödrum. Einn þeirra var Eiríkur gódi, hann dó á súdurferd í Kýprusey. Voru nú styrjaldir miklar í Danmörku milli ýmsra konúnga er komnir voru af Sveini Ástrídarsyni, til þess er Valdimar Knútsson, hinn 1ti edur mikli, vann sigur á Sveini konúngi Eiríkssyni á Gradarheidi, og fékk einvald yfir allri Danmörku (1157). Absalon biskup var mikill vin Valdimars konúngs, og var jafnan í rádum med honum, er og fremur getid stjórnarkænsku hans og herkunnáttu, heldur enn hins hversu

mikill klerkur hann verk. Hann var fyrst biskup í í Hróarskéldu og sídan erkibiskup í Lundi.

Nordan á Þýdskalandi þar sem nú heitir Pommern og Meklenborg, bjó í þá tíd þjód sú er Vindar hétu, en landid Vindland. Höfdu Vindar jafnan, medan ófridur sá stód í Danmörku, er fyrr er getid, herjad á Dani, og farid med ránum um strendur þeirra. Sendi nú Valdimar konúngur Absalon móti þeim, börduzt þeir á skipum, og fékk Absalon sigur og Vindar flýdu. Sídan vann hann borgina Arkún í Re-ey (Rygen), og neyddi landsmenn ad taka vid kristni, en brenndi god þeirra er Svantavít hét. Frægd sú er Danir nádu á dögum Valdimars ens fyrsta, helzt og medan Knútur son hans, enn 6ti, sat ad völdum. Var Absalon einnig rádgjafi hans. Þessi hinn mikli madur efldi mjög vísindi. Var þad ad hans undirlagi ad þeir Saxó Grammatíkus og Sveinn Akason ritudu Danmerkur sögur á latínu máli. Absalon lét og reisa kastala í Kaupmannahöfn til varnar móti víkingum, og jókst vid þad verdslun og velmegun borgarinnar. Knútur konúngur andadist (1202) vetri sídar enn Absalon. Tók þá ríki í Danmörku, Valdimar 2 (hinn sigursæli) brodir Knúts. Hann lagdi undir sig strendur allar sunnanverdar med Eystrasalti, þar sem nú er, Meklenborg og allt austur á Lífland. Hernadur hans vid Líflendinga má kalla ad væri einskonar krossleidángur. Andréas Súnason erkibiskup var fyrir lidi Danakonúngs. Eittsinn komust Danir í kröggur miklar, en einn atburdur vard

til og skaut eplid af höfdi sveininum. Gésler sér ad Tell hafdi adra ør hjá sér, og spyr hví hann gjørdi svo. Þá svarar Tell: Þér var sú ør ætlud, hefda eg hæft son minn í stad eplisins. Gésler lét leggja Tell í fjötra, og færa á skip sitt, og ætladi ad flytja hann heim til sín yfir Fernisskógavatn. Á vatninu styrmdi ad þeim svo mjøg, ad lág vid druknun, var þá ekki annad til úrræda, en leysa fjötrana af Tell og láta hann setjast undir stýri; því hann var stjórnari hinn besti. Hann lagdi skipinu þar ad landi sem hamrar ar voru fyrir, og er skipid rennir ad, hleypur hann af upp á klett einn, og hrundir skipinu frá landi. Gésler nádi landi á ødrum stad, en þar var Tell fyrir og skaut hann til bana. Vid þetta óx samsærismønnum hugur, og sátu nú ekki lengur um kyrrt. Einn þeirra átti unnustu í einni af borgum Austurríkis manna þar í landi. Adfaranótt ársins 1308, hjálpadi hún honum upp í borgina, sídan hjálpadi hann félögum sínum ad komast þángad, og tóku þeir svo borgina um nóttina ad menn urdu eigi varir vid. Adra borg tóku þeir frá Austurríkis mønnum á þann hátt: Þad var sidur ad færa landstjórum gjafir á nýársdegi. Nokkrir menn Sveissneskir, ráku gángandi fé ad borginni, og kvádust færa þad landstjóra. Voru þeir látnir gánga inn í borgina. Þá tóku þeir undan klædum sínum hvassa járnbrodda, festu þá vid hjardprik sín, og tóku med þessum vopnum borgina. Þannig sigrudust Sveissar á Austurríkis mønnum med hreysti sinni og rádum. Þó vantadi enn mikid á, ad frelsi þeirra mætti kallast

grundvallad. Ekki hofdu enn néma 3 fylki geingid í félag, og rekid ofríkismennina af höndum sér, þessi fylki voru: Urí, Untervalden og Sveiss, og Albrekt keisari bjóst til hefnda. Fór hann med her manns til Sveissalands, en Jóhann af Svaben, bródurson hans, vóg hann á þeirri leid, fyrir [illegible]sök ad keisari hafdi haldid undir sér erfdalöndum hans. Hinrik keisari hinn 7di, kannadist ad sönnu vid, ad Sveissar hefdu nád frelsi sínu, en Austurríkismenn gátu samt ekki gleymt því er þeir höfdu misst, og gjördi márgar tilraunir til þess ad ná aptur landinu. Þeir áttu orrustu vid Sveissa undir Morgarta fjalli, og bidu ósigur; adra orrustu áttu þeir hjá Sempakk, og var Leópold hertogi fyrir þeim (1386). Þar gékk Arnold Vinkelríd í daudann fyrir landa sína, svo þeir feingi sigur. Austurríkismenn stódu fastir fyrir sem bjarg, gjördu Sveissar mörg áhlaup á fylkingar þeirra, og feingu ekki adgjört. Þá kallar Arnold Vinkelríd til landa sinna þessum ordum: veitid ásjá konu minni og börnum! sídan hleypur hann fram og grípur tveim höndum spjót nokkurra óvina sinna er fyrir voru. Stódu spjótin ígégnum hann, en hlid kom á fylking þeirra Austurríkismanna, ruddust Sveissar þar inn um, og hjuggu á bádar hendur, snéri nú mannfallinu á hertogans menn, og drápu Sveissar hvörn sem fyrir vard. Þar féll Leópold hertogi og kappar hans allir. Eina orrustu áttu Austurríkismenn vid Sveissa eptir þad, og feingu Sveissar sigur. Komust þá sættir á med þeim, og urdu Austurríkismenn ad vidurkénna frelsi

menn þessa. Stípaðist konúngur við orð þeirra, og gaf þeim líf. Filippía drottníng Játvarðar, er þá kom frá Skotlandi og hafði unnið þar sigur, átti og góðan hlut að þessu máli. Nokkru seinna herjaði Játvarður (svarti prins) úr héraði því sem Gienne heitir, á Frakkland. Hann hafði lítið lið, og hætti sér lángt uppí land, en í grend við Peituborg (Poitiers) umkríngdi Jóhann góði Frakka konúngur hann. Sá Játvarður sitt óvænna, og bauzt að halda burt af Fracklandi til Gienne, þar sem enskir menn áttu landeignir; en Frakkar treystu liðsafla sínum og lögðu þegar til orrustu. Þar fengu enskir menn sigur og tóku Jóhann konúng höndum (1356). Hafði Játvarður kóngsson hann með sér til Lundúnaborgar, og fór með hann virðuglega. Meðan Jóhann konúngur sat í varðhaldi á Englandi, var svo róstusamt á Frakklandi, að naumast hafa í annan tíma orðið meiri brögð að því, nema ef telja skal stjórnarbiltínguna miklu fyrir en síðustu aldamót. Lutu óeyrðirnar mest að því, að minka kóngsvaldið, en bændamúgurinn vaknaði af laungum ánauðarsvefni, og hefndi sín ofboðslega á lendum mönnum, undirokurum sínum. Hafði Karl kóngsson fullt í fángi með að sefa óeyrðirnar, tókst honum það þó um síðir. Eptir andlát föður síns, Jóhanns konúngs, tók Karl við ríkisstjórn á Frakklandi, og nefndist hinn 5ti með því nafni. Tók hann aptur frá Englismönnum allt það, er þeir höfðu lagt undir sig á Frakklandi, nema Kaleborg. Atti Frakka konúngur það einkum að þakka, hinum ágæta hershöfðingja Bertrand

des Gueselin. Enda var þá og Játvarður kóngsson, hetjan, andaður, en Játvarður konúngur (hinn 3i.) faðir hans, ólíkur því í elli sinni, sem hann hafði verið hinn fyrri hluta æfi sinnar. Á dögum Játvarðar ens 3ja, fekk alþýðan á Englandi fyrst algjörlega rétt til þíngsetu á þjóðþíngi (Parlament) þeirra, og þá aðgreindist til fulls og alls nedri málstofan, (alþýðustofan, Hous of Commons) frá efri málstofunni (Lávarðastofan, Hous of Lords), (1343). Er þjóðarþíng þetta síðan orðið mjög víðfrægt.

Eptir daga Karls 5ta (1380), kom til ríkis sonur hans Karl 6ti, hann var mestan hluta æfi sinnar vitstola, voru þá enn óeyrðir á Frakklandi, og kepptu þeir konúngs frændurnir, Hertoginn af Orleans og Hertoginn af Búrgúndíu um völdin. Sætti Hinrik Engla konúngur hinn 5ti, (sonur Hinriks hinns 4da af Lankasturs ætt) því tækifæri, fór herferð til Fraklands, og vann mikinn sigur á Frökkum hjá þorpi því er Azincourt heitir; höfðu þó Frakkar lið miklu meira. Litlu síðar áttu þeir fund með sér, Karl konúngsefni Frakka, son Karls 6ta, og Jóhann hinn hugdjarfi, Búrgúndíu hertogi, var hertoginn veginn á þeim fundi. Gjörði þá Filippus góði, sonur Jóhanns hertoga, samtök við enska menn og Isabella Frakka drottníng gekk í lið með þeim af hatri við Karl son sinn. Var þá eínginn sá maður, fyrir nordan Lóra fljót (Loire), er fylgja vildi Karli. Friður var saminn millum ríkjanna í Troyesborg (1420), skyldi Hinrik 5, fá Katrínar dóttur Karls 6ta og erfa ríki á Frakk-

andl. eptir hann, en Karl konúngsson misti rjett til. Tvéim vetrum síðar andaðist Hinrik konúngur, nokkrum dögum fyrr enn Karl 6ti Frakka konúngur. Var þá sonur hans, 9 mánaða gamall, til konúngs tekinn yfir England og Frakkland, og nefndur Hinrik hinn 6ti. Stýrðu föðurbræður hans, hertogarnir af Bedford og Glócester, hafa öll forráð á hendi. Hertoginn af Bedford á Frakklandi, en hinn á Englandi. Kreppti nú mjög að Karli Karlssyni (ens sjötta), er einn flokkur manna hafði tekið til Kóngs yfir sig, og kallað Karl enn 7da. Var eigi annað fyrir að sjá, enn hann mundi aldrei komast til ríkis á Frakklandi. Englismenn unnu hvervetna sigur, og settust um Orleansborg; mátti kalla úti um ríki Karls 7da, ef sú borg ynnist. En þá varð sá atburður, er gjörði skjót umskipti á högum Frakka. Stúlka ein frá Dom Remi í Lótringafylki, að nafni Jóhanna Dark (Jeanne d' Arc), gekk á fund Karls konúngs, og kvaðst vera send frá Guði, til að reka Enska menn burt af Frakklandi. Trúðu margir þessu, en Jóhanna fór með sveit manna til liðs við þá í Orleans, urðu þá Enskir menn frá að hverfa. Þessunæst kom hún Karli til Reimsborgar, eins og hún hafði heitið honum; var hann þar krýndur. Vildi hún nú fara frá hernum, en menn fengu hana til að bregða af þeirri fyrirætlun. Litlu síðar komst hún í hendur Englismanna. Kölluðu þeir hana galdranorn, og sjálfir háskólakennendurnir í Parísarborg samsinntu því, var henni þá hrundið á bál og brend til ösku. 20 árum seinna lét Karl konúngur rannsaka mál henn-

trádu þá mjøg undir fótum, til þess er Níels riddari Ebbason vóg Gért greifa ad Randárósi (1340). Tóku þá Danir Valdimar Kristóferson til konúngs yfir sig, hann kølludu þeir Atterdág (Aptur dagur). Hann nádi aptur øllum þeim hlutum ríkisins er komnir voru á sundrúng; suma lagdi hann undir sig med herskyldi, en sumar borgir og fylki leysti hann af vedi. Hann gipti Margrétu dóttur sína Hákoni enum 6ta, Noregs konúngi, vard þad orsøk til þess ad Danmørk og Noregur sameinudust. Eptir andlát þeirra Valdimars konúngs (1375) og Hákonar konúngs (1380), erfdi Olafur Hákonarson bædi ríkin, en Margrét drottning módir hans hafdi forráð øll, því Olafur var barn ad aldri. Sjø vetrum sídar andadist Olafur, var þá Margrét kjørin til ríkisstjórnar í bádum ríkjum. Litlu sídar geingu og Svíar á vald Margrétar drottníngar. Sá konúngur rédi þar fyrir landi er Albrekt hét, frá Meklenborg; hann hafdi bodad til Svíþjódar mikinn fjølda þýdskra manna, vard hann af því mjøg óvinsæll af Landsmønnum, og leitudu margir høfdingjar af Svíþjód, trausts hjá Margrétu drottníngu. Hún var hinn mesti óvin Albrekts konúngs; hafdi hann kallad hana Múnkádækju (Munkedeie), sakir vinfeingis þess er var med henni og Sóreyar ábóta, og sendt henni brýni, med þeim ordum, ad hún skyldi hvetja á því nálar sínar. Hét drottníng þeim øllum lidveitslu er á hennar fund komu, ef þeir vildi fá sér í hendur ríkisstjórn í Svíþjód. Eptir þad sendir hún Ivar Lukku, hershøfdíngja sinn med her manns til

Svíþjóðar. Alberkt konúngur fór í mót honum, og hittust hjá Falköpíngi. Fengu Danir sigur, en Svía konúngur var handtekinn og hafdur í varðhaldi, til þess er hann afsaladi sér öllu tilkalli til konúngdóms í Svíþjód. Þessu næst stefndi Margrét mönnum af Danmörku, Noregi og Svíþjód til fundar í Kalmar (1397), skyldi þar rædt um sameiníngu ríkjanna. Var þar ákvedid: ad jafnan skyldi einn vera konúngur yfir þessum þrem ríkjum; skyldi hann sitja 4 mánudi á ári í hverju þeirra; þau skyldu hvert um sig hafa sín lög og réttindi, og til enna ædri valda skyldu þeir einir komast, er í því landi væru bornir. Þegar konúngur andadist skyldu menn eiga fund í Hálmstad og taka sér nýjan konúng. Margrét fékk því og til leidar komid á Kalmar-þíngi, ad systurdóttur son hennar Eiríkur af Pommern, var tekinn til konúngs yfir þessi 3 ríki, þó skyldi hún hafa öll ráð öll. En það vard hvörki ríkjunum til mikils gagns, edur Margrétu til stórrar gledi. Eirík skorti hvorutveggja, bædi vilja og mátt, til ad vera dugandi konúngur. Hann gjördi bædi margt til skapraunar Margrétu drottníngu, og breytti í mörgu eptir andlát hennar, bædi af grimd og af gáleysi, útaf Kalmar-samþykt inni, og svo fór, ad Svíar og Danir ráku hann frá völdum. Flýdi Eiríkur þá til eyar þeirrar er Gotland edur Gulland heitir, og gjördist víkíngur. Nokkru síðar var hann rekinn þadan, og lézt loks á Vindlandi í mestu eymd og volædi.

## Hvörnig er Tyrkir unnu Miklagard; og frá Mongólum.

Rómaveldi hid eystra, edur hid gríska keisaradæmi, hafdi svo ad segja lengi verid í andarslitrunum. Voru Persar og Arabar um lánga æfi einir skædustu óvinir þess; þó urdu Tyrkir þeim skædastir. Þeir voru komnir austan úr Asíu, frá löndum þeim er liggja umhverfis hid Kaspiska haf, kölludu menn í fornöld þau lönd Skytia, en á seinni tímum Tartaríu. Getur Tyrkja fyrst á 6tu öld eptir Krists burd; þá er þeir veittu Grickja keisurum mót Persum, sídan urdu þeir vid Múhameds trú, og geingu á mála hjá Kalífunum í Bagdad. Nádu höfdingjar þessa manna (þeir kölludust Emir al Omra); smátt og smátt miklum völdum hjá Kalífum. Jarlar Kalífanna, sem flestir voru tyrkneskir hershöfdingjar, brutust undan, og settu á stofn sín ríki, er þó mörg áttu skammann aldur; enn þad helzta af þeim er Seldsjukka-ríkid, áttu höfdíngjar þess, um 200 ára tíma, jafnan í ófridi vid Grickjakeisara og krossfarendur. Nálægt 1300 árum e. Kr. b., setti höfdíngi sá er Osmann edur Otmann hét, (máske af Seldsjukka ættum) ríki eitt á stofn í Asíu enni minni, gagnvart Miklagardi. Orkan son hans tók ríki eptir hann, og fékk dóttur Miklagards keisara, og þar med tilkall til ens gríska keisaradæmis. Nádu og Tyrkir á hans dögum fótfestu í Nordurálfu. Hann kalladi sig fyrstur Sultan (Soldán), og hefir þad nafn haldist sídan. Amúrat 1ti, sonur Orkans, lagdi undir sig Masedoníu og Trasíu,

undir. Bædi misstu þeir mørg og mikil skattlønd. Herlid þeirra var fallid í orrustum, og fjárhyrdslur ríkisins tómar, og olli Karl 12ti þeim óhøppum. Ad sønnu átti hann í fyrstu hendur sínar ad verja, en sigursæld hans framanaf gjørdi hann fullan ofmetnadar: Hann vildi hrjóta undir sig óvini sína, og ad sídustu braust hann andverdur móti hamíngju sinni.

## Frá Pétri mikla.

Á døgum Karls 12ta Svíakóngs rédi fyrir Rússlandi Pétur Czar hinn fyrsti, og er hans ádur ad nokkru gétid. Fyrir þá tíd koma Rússar lítid vid málefni Nordurálfu búa, enda voru þeir og mjøg á eptir ødrum þjódum í allri mentun. Fadir Péturs hét Alexius, og hafdi hann þegar byrjad á menníngu Rússa, en ordid lítid ágeingt. Alexíus átti þrjá sonu: Fedór, Ivan, og Pétur, og dóttur eina er Sofia hét. Fedór var eldstur þeirra brædra, og tók ríki eptir fødur sinn, og var vitur madur og stjórnsamur einsog hann hafdi verid. Hann ríkti skamma stund, og kaus til ríkis eptir sig yngra bródur sinn Pétur; því honum þótti hann betur fallinn til høfdíngja enn Ivan. En Sofía systir þeirra, er sjálf vildi komast til valda, fékk hermannaflokk einn er Strelizar hétu, til ad gjøra uppreist, og kom því til leidar ad brædur hennar voru bádir til Czara teknir, en sjálf skyldi hún eiga þátt í stjórninni med þeim. Ekki leid á laungu, ádur henni þókti Pétur rádríkur, og stód henni ótti af honum, og reyndi því til ad ráda hann af døgum. En

Hann fékk fregn af fyrirætlan hennar, safnadi mønnum sínum, tók Sofíu høndum og setti í klaustur, en settist sjálfur ad ríkjum. Ivan sagdi af sér vøldum en hélt þó Czars nafni til dauda. Skjótt sá Pétur ad þjód sinni var í mørgu ábótavant, og lét sér alla æfi vera mest um þad hugad, ad efla framfarir hennar í øllum greinum. Fyrst og fremst kom hann fótum undir her- lid sitt, og sjálfur var hann fyrst undirforíngi vid herlidit, og komst svo smámsaman hærra, til þess ad vera ødr- um mønnum til fyrirmyndar. Kaupverzlun og siglíngar lét hann sér mjøg annt um ad bæta, og í því skyni fór hann til Hollands, og lærdi þar skipasmídi í þorpi því er Zardammur heitir, þadan hélt hann til Englands, og fanst honum mjøg um skipasmídi Englismanna. Sídan hélt hann til Vínar, og ætl- adi þadan sudurá Feneyjar, en þá kom honum sú fregn ad heiman, ad Sofía hefdi enn komid Strelitzum til ad gjøra uppreist. Brá hann þá vid, og fór sem skjótast heimleidis. Gordon herforíngi hafdi þegar unnid sigur á uppreistarmønnum er Czarinn kom heim, en hann lét nú refsa þeim þúnglega er hann kom sjálf- ur til. Hann lét leggja þá nidur vid høggstokkinn, mann vid mann í lángar radir, og hjó sjálfur høfud af sum- um þeirra, því grimmur var Czarinn jafnan ødrum þrædi, þó hann bætti í mørgu sidu þjódar sinnar. Síd- an afmádi hann med øllu þennan Strelitza flokk. Í ófrid, þeim er hann átti vid Tyrki báru Rússar hærra hlut og feingu Asofsborg sudur vid svarta haf. Þessu næst hófu þeir ófrid vid Svía, og veitti í

allar nýbreytíngar þessar hans vóru naudsynlegar. Þá Pétri bád nærsta illa, sem von var. Enda lét Alexius menn skilja, ad hann mundi kollvarpa því öllu er fadir hans hafdi gjört, jafnskjótt og hann yrdi sestur ad völdum. Loksins flýdi hann úr landi, en er hann kom heim aptur lét fadir hans nefnd manna rannsaka glæpi hans, var hann dæmdur til dauda og dó í varð- haldi litlu sídar. Pétur eyddi mjög klerkavaldi í ríki sínu, og í stad eins volduga Patríarcha (erkibiskups) skipadi hann nokkra af embættismönnum sínum í nefnd til ad stýra andlegum málefnum ríkisins. Hann efldi kröptuglega vísindi, listir, og allt þad sem ordid gat þjódinni til framfara. Vid ríki sitt jók hann lendum öllumegin. Eptir fridarsamnínginn í Nýstad tók hann sér keisara nafn, og hafa einvaldar Rússa haldid því sídan. Pétur hinn mikli andadist 1725 á 3ja ári hins sjötta tugar. Tók þá vid ríkisstjórn drottníng hans Katrín 1ta, hún ríkti vel og sköruglega, en andadist ad tveggja ára fresti.

## Frá Fridriki enum mikla Prússa konúngi.

Á ofanverdri seytjándu öld (frá 1640 til 1688) rédi fyrir Brandinaborg Fridrik Vilhjálmur kjörfursti, hinn mikli, hann var hermadur mikill og hinn mesti stjórnarvitríngur, og jók ríki sitt á marga vegu. Kemur hann mjög vid sögu Lodvíks 14da og Karls 10da Svíakonúngs. Fridrik kjörfursti sonur hans, tók sér fyrstur konúngsnafn yfir Brandinaborg og enu Prússnesku Hertogadæmi, og nefndi sig Fridrik 1ta

hafa þau lönd síðan heitið Prússaríki eða Prússaland (Preussen). Sonur hans Fridrik Vilhjálmur 1ti jók ríkið að löndum og var vitur maður og stjórnsamur, spar á fé og harður í skapi. Hann lét eptir sig auðuga ríkissjóðu og mikinn her vel æfðan og vopnum búinn; kom Fridriki 2rum syni hans hvorttveggja í góðar þarfir. Í æsku sinni átti Fridrik frábærlega hart hjá föður sínum. Beiddist hann einhverju sinni að mega fara úr landi, og kynna sér aðrar þjóðir, en faðir hans tók því fjærri. Réði þá konúngsson það af, að hlaupast á burt með kunníngjum sínum 2ur, Keiti (Keit) og Katta (Katt). En konúngur frétti fyrirætlan þeirra, og lét taka þá höndum, son sinn og Katta, en Keitir komst undan. Katti var dæmdur til dauða og hálshöggvinn úti fyrir halldrgluggum konúngssonar, og honum skipað að horfa á, og vantaði lítið á, að þeir Katti færu eina för báðir. Fridrik 2ar kom til ríkis eptir lát föður síns 1740. Það ár, litlu síðar, andaðist Karl Þýðskalands keisari sonur Leópolds keisara; hann var seinastur af Habsborgar ætt, er setið hafði að ríkjum á Þýzkalandi 467 ár. Aðr Karl keisari lézt, setti hann þau lög (er kallast hin pragmatiska sanction), að dóttir sín María Teresía skyldi erfa ríki eptir sig, og samþykktust flestir stjórnendur því í norðurálfu. En litlu eptir dauða Karls keisara, krafðist Fridrik 2ar Prússakonúngur, af Maríu Teresíu, ýmsra hérada í Slesíu, er hann þóttist eiga tilkall til frá fornu. Þessu neitaði María, en Fridrik hélt her sínum inní Slesíu, og Schverin her-

höfdíngi hans og lærisveinn Mogens af Gavosen, vann sigur á Austurríkis mönnum hjá Mollwitz. Þá risu upp hinir adrir óvinir Maríu Teresíu: Karl Baeara-lands kjörfursti þóttist vera rétt ad öllum erfdum hennar borinn, og fékk lidveitslu frá Frakklandi og Spáni. Frakkneskur og bæverskur her braust inní Bæheim, vard María ad flýa med Jósef son sinn til Ungaralands, og skoradi á landsmenn til lids vid sig. Þeir brugdu sverdum og sóru ad verja drottníngu sína medan nokkur þeirra stædi uppi. Vopnudust þeir nú þjódvæpni og ráku enn bæverska her af höndum sér, en María drottníng samdi frid vid Fridrik 2ann í Breslá og fékk honum í hendur mestalla Slesíu og greifadæmid Glaz. Karl kjörfursti, er um þessar mundir gjörst hafdi keisari, og kallad sig Karl enn 7da, ráku nú drottníngarmenn úr ríki, og lét hann fyrirberast í Frakka-furdu vid Main. Frakkar urdu ad rýma Bæheim, og bidu sídan mikinn ósigur hjá Dettínga þorpi (Dettingen) fyrir Georgi 2rum Englakonúngi, er var einn af bandamönnum Maríu Teresíu. Nú tók Fridriki ödrum ad þykja nóg um sigursældir Austurríkismanna, og þókti eigi annad líklegra enn María drottníng mundi vilja ná aptur Slesíu, ef hún ynni sigur á öllum mótstödumönnum sínum. Fyrir þá sök rauf hann frid þann er hann hafdi samid vid drottníngu í Breslá, og gjördi samband vid Karl 7da og Frakkakonúng. Tókst nú ófridur ad nýu og fékk Fridrik sigur í tveim orrustum, á Austurríkismönnum hjá Háfafridarbergi (Hohenfriedberg) og Sorr. Sídan samdi hann frid vid drottn-

um merkid, og hljóp á móti óvinunum og sveitin hans á eptir honum og fengu komid þeim á flótta; en Schwerin kappinn féll, og hafdi þá 2 um 70. Nú settist Fridrik kóngur um Prag, og mundu borgarmenn hafa ordid ad gefast upp, ef adrir hefdu eigi komid til ad rída þá. María drottning sendi Dán (Daun) frægan herhöfdingja med miklu lidi til Pragar. Fridrik vildi ekki ad hann skyldi koma til hjálpar vid Pragarmenn, og fór því móti þeim; vard fundur þeirra hjá Kollín, edur þar hinn hardasti bardagi, og er ad því var komid ad Dán lét síga undan, brast flótti í lidi Prússa. Í bréfi einu er kóngurinn ritadi um þær mundir kémst hann svo ad ordi: Ég veit ekki hvert þad má kallast minnkun ad verda undir, í vidskiptum vid svo marga, og svo voldugra fjandmenn; en hitt veit eg, ad þeim er þad lítill frami ad sigrast á mér.

Medan þessu fór fram höfdu fleiri af fjandmönnum Fridriks gripid til vopna móti honum. Frakkar höfdu haldid her sínum inní Hannofra ríki, og vann D' Etre herhöfdingi þeirra sigur á Englismönnum, er voru þar eiginlegu bandamenn Fridriks, undir yfirstjórn hertogans af Kumberlandi. Vard hertoginn ad semja frid í Seven Klaustri og senda herlid sitt frá sér. En Frakkar héldu her sínum austur á leid til Saxlands. Í þad mund héldu Rússar herlidi sínu austann Prússalandinu, Apraxin og Fermór voru fyrir þeim. Þeir höfdu óspakan her, og eyddu bygdum med hinni mestu grimd. Lewald hét einn herforingi Prússa-

hann rédist móti Rússum og átti vid þá orrustu, en fékk ósigur. Nú voru Prússaland varnarlaus fyrir fjandmönnum sínum og var eigi annad sýnna enn útgjört mundi um ríki Fridriks kóngs. Þá héldu og Svíar her sínum nordan frá Strælu á hendur kóngi, og hafdi hann ekki lid ad senda móti þeim. En þad er frá Fridriki ad segja, ad hann lætur eptir nokkurn hluta lidsmanna til varnar móti Austurríkismönnum, en sjálfur fer hann sem fugl flýgi vestur á Saxland móti Frakka her, og þjódlidinu *) (Rigsarmeen), hittir þá hjá Rosbakk, vinnur þar frægann sigur, og flýa Frakkar og þjódlidid í allar áttir, og þóttu þeir sídan hvörirtveggju eingir garpar. Þetta var nálægt vetrnóttum 1757, 5ta Nóv. Á medan höfdu þeir Karl af Lótringen og Dán brotist inní Slesíu. Þángad heldur nú Fridrik og vinnur á þeim sigur hjá Leuthen mestann og frægastann í öllum sínum orrustum. Austurríkismenn voru 80 þúsundir, en Prússar höfdu lid hálfu minna. Þar tók Fridrik höndum freka 30 þúsundir manna, og 134 fallbyssur, en naumast 20 þúsundir komust undan sudur á Bæheimaland. Var nú Fridrik konúngur óvinum sínum miklu óttalegri enn nokkru sinni ádur. Rússar höfdu eptir orrustuna vid Levald, haldid austur á Pólínaland. Snéri þá Levald móti Svíum og rak þá nordur ad Strælu. Árid eptir héldt Fridrik til móts vid Rússa, þeir hittust hjá Zornþorpi (Zorndorf), Fridrik hafdi 37 þúsundir manna,

*) Þjódlid þetta höfdu ýmsir höfdingjar á Þýdskalandi gjört út eptir áeggjan Austurríkis keisara, móti Fridriki Prússa konúngi.

Rússar voru 70 þúsundir, og tókst þar hin grimmasta orrusta og stód í tvo daga. Koníngur var þá svo reidur ad hann bannadi ad gefa nokkrum Rússneskum manni grid, slíkt hid sama gjørdu og Rússar. Um sídir tóku fylkingar Rússa ad ridlast, gjørdist þá ógurlegt mannfall í lidi þeirra, og lauk svo, ad þeir urdu undan ad hrøkkva, en 19 þúsundir lágu daudar eptir. Þadan hélt Fridrik til Saxlands móti Austurríkismønnum. Koníngur hafdi sett herbúdir sínar hjá Hákyrkju (Hochkirchen) þar sem ekki var vígi gott. Þá mælti einn af herhøfdíngjum hans, er Keitir hét: Láti Austurríkismenn oss hér í fridi, þá eiga þeir hengíngu skilid. Eg vona, svaradi koníngur, ad þeir óttist oss meira enn gálgann. En þad brást honum. Þegar nótt var komin redist Dán á herbúdir Prússa, urdu sumir af þeim svo naumt fyrir, ad þeir gátu ekki vopnast, urdu þeir þar ofurlida bornir en Dán tók herbúdir þeirra. Samt høfdu Austurríkismenn lítil not af þessum sigri, því Fridrik ónýtti jafnan fyrirætlan þeirra med rádum sínum. Ár 1759 vann Ferdínand Brúnsvíkur hertogi mikinn sigur á Frøkkum hjá Minden. En Fridrik lét sér þá mest um þad hugad ad banna Rússum og Austrríkismønnum ad slá saman lidi sínu. Þá var Soltikóf fyrir Rússa her, en Ládon (Laudon) fyrir Austurríkismønnum. Ládon var einhvør enn mesti herhøfdíngi er þá var uppi, hann var fæddur á Líflandi og vildi fyrst komast í lid hjá Prússum, en þeir vildu ekki vid honum taka, og fór hann þá til Austurríkis

fridi enn í stridi. Hann var ydjumadur mikill og hinn réttvísasti konúngur, unni vísindum og ydkadi þau sjálfur, og hafdi mikil mök vid lærdustu menn þeirra tíma, einkum var Volteri í miklum kjærleikum vid hann og var lengi vid hird hans. Árid 1772 var Pólínalandi skipt í fyrsta sinn, og átti Fridrik konúngur annar, þar hlut ad máli. Katrín Rússadrottníng hafdi sendt her manns inná Lithaugaland (Lithauen). En Austurríkis keisari inní Gallisíu. Lét því Prússa konúngur herlid sitt setjast ad í Nez hérødum, og í þeim hluta Pólínalands nema Danspik (Danzig) og Torn, er, seinna nefndist Vestprússaland.

Þegar kjørfurstinn á Bæaralandi var dáinn (1777), og Austurríkis menn vildu kasta eign sinni á landid, mælti Fridrik konúngur á móti því, til þess ad þeir yrdu ekki miklu voldugri enn adrar þjódir á Þýdskalandi, og sem þad dugdi ekki, bjó konúngur herlid sitt. Þá létu Austurríkis menn undan, og samdi Jósef keisari 2, sonur Frans og Maríu Teresíu, frid í Teschen (1779) og hætti kröfum sínum. Einusinni eptir þad, vard Fridrik konúngur ad rísa móti Austurríkis keisara; er þá vildi hafa skipti á því er hann átti af Nidurløndum fyrir Bæaraland. Hefdi keisarinn aukist mjøg ad veldi, ef þessu hefdi ordid framgeingt, fyrir því fekk Prússakonúngur komid til leidar, enu svonefnda Høfdíngjasambandi. Tilgángur þess var ad vernda réttindi Þjódverja fyrir keisaranum, og vard því ekki af skiptunum. Litlu sídar (1786) deydi

Fridrik 2. Þótti hann hafa verid flestum konúngum meiri, og vard hann þjód sinni mjøg harmdaudur.

## Frá Katrínu Annari Rússadrottníngu, Páli fyrsta og Alexánder fyrsta.

Rússland hefir frá því á døgum Péturs mikla, og framm á ondverda vora øld magnást svo mjøg, ad þad má telja med mestu ríkjum Nordurálfunnar. Hefir Katrín 2ur átt þar mestan þátt í. Hún var ættud frá Anhalt-Zerbst; giptist enum rússneska Stórfursta og keisaraefni, Karli Pétri Ulrikk, og tók þá enn grísku trú, er Rússar fylgja. Opt átti Katrín hørdu ad mæta af manni sínum, og vóx af því sundurþikkja mikil med þeim. Enn þegar Elizabeth drottníng dóttir Péturs mikla andadist (1762), kom Pétur hinn 3ji med því nafni til ríkis; hann vard mjøg óvinsæll af alþýdu fyrir því ad hann helt med Fridriki 2ann Prússakonúngi, og fór í ýmsu ekki varlega. Þarámóti vann Katrín hvørs manns hylli med mildi sinni og lítillæti. Þetta hagnýtti hún sér, braust til valda og rak Pétur mann sinn frá ríkjum; hafdi hann þá vidbúnad mikinn og ætladi ad færa Dønum strid á hendur. Litlu sídar lét hún drepa hann í myrkrastofu (1762). Nú var Katrín ordin einvøld yfir Rússlandi, og vard fræg af ríkisstjórn sinni. Tveim árum eptir ad hún kom til ríkis, lét hún velja Stanislás Poniatóvsky vin sinn, til Konúngs á Pólínalandi, eptir andlát Agústs konúngs enns 3ja. Med þessu móti fekk hún hønd med í þjódmálefnum Pólskra manna. Um þær mundir voru trú-

Sistóva, slítudu þeir Tyrkjum flestu aptur er þeir höfdu tekid, og milli Rússa og Tyrkja í Jassy, feingu Rússar Oczakóv og landid umhverfis, en Dnísterfljót skyldi adgreina lönd þeirra. Krímlendíngar geingu allir undir Rússa. Medan þessu fór fram þókudust Pólínalandsmenn smámsaman nær endalykt sinni. Þegar en fyrstu skipti voru gjörd (1772), gáfu Rússar landsmönnum nýa stjórnarlögun, kviknadi af því mjög hatur þeirra á Rússum. Medan á ófridnum stód vid Tyrki, leitudust Pólskir menn vid ad rýmka um frelsi sitt, og sömdu nýa stjórnarskrá og kollvörpudu þeirri er Rússar höfdu gjört þeim. Var þar ákvedid ad ríkisstjórn skyldi, eptir dauda Stanislás kóngs, gánga í erfdir í enn saxneska ættlegg, og herlidi skyldi fjölga allt ad 100 þúsundum manna. Fridrik Vilhjálmur 2ar Prússakonúngur, hét Pólökkum ad styrkja þá, ef Rússar vildu leita á þá. Af því vard þó ekki, og þegar Rússar ad nýu kostudu eign sinni á nockud af landinu, gjördi Prússakonúngur slíkt hid sama, og lýsti því yfir, ad hann yrdi ad gjöra þad til þess ad ekki kveikti í ríki sínu frelsis andi Pólínalands. Þannig var landinu skipt í annad sinn (1793). Rússar gjördu þar alla hina sömu stjórnarlögun og hid fyrra sinnid, og þad med, ad fækka skyldi herlidi Pólakka allt ad 16000. Þá laust upp ófridinum. Voru margir drepnir af Rússum í Varská höfudborg Pólínalands, en adrir hrukku undan. Kosciúskó hét einn ágætur hershöfdíngi á Pólínalandi, hann hafdi barist fyrir frelsi Sambandsríkjanna í Vesturálfu, og nád

mikilli frægd. Hann gjördist oddviti landsmanna, og hét ad verja frelsi ættjardar sinnar medan hann stædi uppi. En vid ofurefli var ad etja þarsem Rússar voru. Súvaróv og Repnín héldu Rússa her inní Lithaugaland, og unnu sigur á uppreistarmönnum. Sídan stefnir Súvaróv lidi sínu til Varskár, en Kosciúskó heldur út móts vid hann; og bar fundum þeirra saman hjá Maczeiwits; höfdu Rússar lid hálfu fleira. Þar tókst hin grimmasta orrusta, og lauk svo ad Kosciúskó var lostinn mikid högg aptaná höfudid, hneig hann þá til jardar, og í því bili kallar hann hátt: **Finis Poloniæ!** þ. e. Nú er úti um Pólínáland. Var hann þá handtekinn og fluttur til Pétursborgar, og hafdur í vardhaldi til þess er Páll keisari komst til ríkis og gaf honum lausn. En Súvaróv heldur til Varskár eptir handtekningu Kosciúskós, tekur borgina og drepur allt hvad fyrir verdur, konur sem karla, gamla menn og únga. Skiptu þá Rússar, Prússar og Austurríkismenn landinu med sér í sídasta sinni (1795). En Stanislás kóngur lagdi nidur konúngdóminn eptir bodum Katrínar drottníngar, og andadist litlu sídar í Pétursborg.

Í ófridi þeim er Katrín átti vid Svía höfdu þeir betur. Medan Tyrkjastrídid stód, hafdi Gustaf hinn 3ji Svíakonúngur, rádist á lönd Katrínar drottníngar, og mundi honum hafa ordid vel ágengt hefdi yfirmenn hans vid herinn hlýdt honum. En lendir menn undu illa ad konúngur hafdi takmarkad veldi ríkisrádsins, en aukid sitt, og neitudu fylgd sinni móti

høfdu fullt í fángi ad verjast árásum villiþjóda, er þar bjuggu fyrir í landi, og ekki gátu þeir goldid Engla konúngi skatt. En smámsaman jókst svo velmegun nýlendumanna, vid kaupverzlun og ýmsa útvegu þeirra, ad Englismenn fóru ad gefa þeim meiri gaum enn ádur. Þá var þad leidt í løg á Englandi, ad nýlendumenn skyldu sæta nokkrum nýjum áløgum, skyldu þeir medal annars kaupa konúng-merktan pappír (stimpladan pappír), og ekki annad tegras hafa, enn þad er þeir keyptu af enu indverska verlzunarfélagi í Lundúnum. Nýlendumønnum þókti sem vær, ad þetta væru ólog, og kvádust því ad eins mundu gegna nokkrum áløgum af hendi Breta, ad þeir fengi ad senda fulltrúa til þjódarþíngs á Englandi. Urdu margir til enskir menn ad tala máli Vestmanna; medal annara Kattamur lávardur (Pitt enn eldri). En því var ekki gaumur gefinn. Þá laust upp ófridinum í Vesturálfu; ráku landsmenn vída af høndum sér tollheimtumenn Breta, løgdu pappírinn á eld og brendu, var þá pappírs løgmálid látid nidurfalla, en tegras skráin standa vid lidi. En þá tóku Vestmenn sig saman um ad kaupa ekki tegras. Enskir menn sendu samt nokkur skip, med þann varníng, til Bostúns, en þá geingu bæarmenn í dularklædum á skip út, og køstudu 327 tekistum fyrir bord. Var þad hinn mesti skadi, og krøfdust enir ensku fulltrúar skadabóta. Var þá Gage hershøfdíngi sendur med her manns af Bretlandi, til Bostúns, skyldi hann halda borginni umspenntri til þess er skadinn væri endurgoldinn. Nú tóku Vestmenn

ad verja sig vid vopn, neitudu krøfu Breta, og létu hardt mæta hørdu. Þrettán fylki gengu þá í félag, og stefndu allsherjarþing í Brædraborg (Filadelfia), 5ta Sept. 1774. Skyldi þángad koma fulltrúar úr hverju fylki, og rádgast um þad sem øll fylkin vardadi. Þá var því fyrst lýst yfir á þinginu, ad Vestmenn søgdu sig úr øllu verzlunarfélagi vid enska menn. Þvínæst var landsmønnum bodid ad vopnast þjódvæpni, reisa vígi og stofna fordabúr. En þá høfdu menn ekki barist, en þegar Gage skipadi ad fella fordabúr nokkur í grend vid Bostún, þá gripu landsmenn vopn sín, og børdust vid Breta hjá þorpi einu, er Lexíngtún heitir. Þad kom fyrir ekki, ad Kattamur lávardur (Lord Chatam) rédi enni ensku stjórn, ad sættast vid Vestmenn, og segdi: ad þad væri henni eins ofvarid ad kúga þá til hlýdni vid sig, eins og honum ad reka undan sér alla málstofumenn, med hækju sinni. Rádherrarnir kvádust ekki annad vilja, enn sjá Vestmenn flata fyrir fótum sér. Var þá lidsafnadur mikill, og ýmsir smáhøfdingjar á Þýzkalandi seldu þegna sína á mála, enskum mønnum. Sendu þeir nú mikid lid til Vesturálfu. Hershøfdingjar Breta voru þeir Klinton, Hósi og Bargini (Burgoyne). Skyldi Klinton rádast á sudurfylkin; Hósi á midløndin, en Bargini ad nordan. Um þessar mundir kjøru Vestmenn Georg Vashington til ædsta hershøfdingja síns. Hann var en mesta hetja, og enn vitrasti madur, hugprúdur og þrautgódur í øllum mannraunum, hinn vopndjarfasti madur, en þó vel stilltur, mildur og lítillátur vid hvern

manni. Var það bæði að Washington hafði flesta kosti til að bera; enda þurfti hann og þessa alls við, þá sem hann átti í höggi við Englismenn, eina hraustustu þjóð og vana orrustum og sem aldrei skortir fé til hvers sem vera skyldi. En Vestmenn voru fáliðir, og lítt vanir hernaði. Veitti nú enskum mönnum betur í fyrstu, en frelsis andi og samheldni og atorka Vestmanna, gjörði þá að lyktum sigursæla. Nálægt miðju sumri 4ða Júlí 1776, lýstu 13 af nýlendu fylkjunum því yfir: að þau væru sjálfs þaðan af, og laus allra mála við Breta. Árið eptir, nálægt vetur nóttum vann Geitir (Gates) herforingi nýlendumanna sigur á Burgoin, og tók hann sjálfan höndum og lið hans allt. Þegar sú fregn barst til Norðurálfu, viðurkenndi Frakkakonúngur frelsi Bandafylkjanna, og sendi þeim herskipaflota, og 6000 landhers, til liðveizlu; áður höfðu einstöku menn farið af sjálfsdáðum úr Norðurálfu, til að berjast með Vestmönnum, t. a. m. Kosciusko. Hinn víðfrægi La Fayette hafði af eigin rammleik gjört út skip, og fór sjálfur með, og gekk Washingtoni til annarar handar í ráðum og dáð.

Sá maður sem mest og best gekkst fyrir því, að útvega Bandafylkjunum liðveizlu hjá Frökkum, hét Benjamin Franklin *); einhver hinn frægasti maður á jörðu. Hann var sá sem fann upp þrumuleiðirinn, er menn veita með þrumueldi þangað sem vera skal. Því var um hann kveðið versið latínska: eripuit

*) Æfisögu Franklíns hefir Jón Sigurðsson íslenzkað, en hið íslenzka bókmentafélag gefið út í Kmh. 1839.

hefdu lagt undir sig Gyrgisland (Georgiu). og Kli-
ton hafdi tekid borg þá er Karlstún heitir, í Karól-
ínu enni sydri. Þar skyldi hann eptir Kornvallis
lávard, med her manns, en helt sjálfur nordur eptir
til móts vid Washington. Kornvallis fór herskyldi
yfir øll nálæg hérød. En er minnst vardi kom Was-
hington og La Fayette ad honum, þar sem heitir í
Jórvíkurtúni og tóku Lávardinn høndum og lid
hans allt. Vid þetta atvik urdu bandafylkin frjáls.
Bretar urdu vonlausir um ad kúga þau aptur til hlýdni
vid sig, og kom þar, ad þeir fóru ad tala um sættir.
Seint um sídir komst fridur á í Versølum (Versailles)
1783. Vidurkénndu þá Bretar: ad bandafylkin í
Vesturálfu væru frjáls; létu af hendi vid Frakka
nokkrar eyar í Vestur-Indíum, og Flórídu og
Minorku vid Spánverja. Frá þeim tíma hafa
bandafylkin ad mestu leiti, notid fridar, og nád mik-
illi velgengni; aukist ad mannfjølda, verzlun og audæf-
um. Washington frelsishetjan, var kjørinn til lands-
stjóra, og stýrdi hann landinu med sama vitsmunum og
ádur herlidinu. Sidan þá tíd hafa bandafylkin fjølg-
ad, svo nú eru þau 25 ad tølu.

I þessum ófridi mistu Bretar mørg lønd og mik-
il, en þeir unnu þad upp aptur á ødrum stødum.
Laungu fyrr enn ófridurinn hófst vid Vestmenn, høfdu
Bretar átt lønd í Austur-Indíum. Á midri 18du
øld vann Klive lávardur Kalkútta-borg þar í
landi, af bengalskum høfdingja, vard hún skjótt mikil
og audug, og høfudborg í landeignum Breta í Aust-

urálfu. Síðan hafa þeir farið þar herskyldi yfir mörg lönd og þjóðir. Ríki hinns mikla Mógúls, er einn af eptirkomendum Tamerlans hafði stofnað, unnu Indverskir höfðingjar, og feingu Bretar nokkurn hluta af því. Enginn af höfðingjum þessara austurheims þjóða, varðist enskum mönnum eins leingi og Hýder Alí, Mýsóra konúngur, og Tippó Saib sonur hans. Um síðir unnu Bretar sigur á honum og drápu, en tóku Seríngapatnam höfuðborgina í ríki hans. Þeir hafa einnig unnið lönd undan Maratta þjóðum og Birmönnum fyrir austan Gangesfljót. Segja menn að Bretar láti sér fremur annt um, að taka auðæfum saman í löndum þessum, enn efla þar alþjóðlega velgeingni.

Bretar eru enir mestu landnámamenn, og er Kókur (James Cook) einkum frægur orðinn af ferðum sínum. Hann sigldi þrisvar umhverfis jarðarknöttinn (frá 1768 til 1779), fann mörg eylönd og eyar í Suðurhásálfu (Australía); og kannaði betur það, er aðrir höfðu fundið fyrir hann. Hann sigldi umhverfis Nýa Holland og Nýa Sæland. Hann fór og norður um sund það, er skilur Vesturálfu frá Austurálfu, og síðan er við hann kennt. Kókur féll á Sandvíkur-eyum 1779, í ey þeirri er Owaihi heitir, er skipverjar hans deildu við eyarbúa. Síðan hafa ýmsir menn farið af Bretlandi í landaleitir, og orðið frægir af, en oflángt yrði hér frá þeim að segja.

# Frá Stjórnarbiltíngunni miklu á Frakklandi.

Af öllum þeim atburdum er ordid hafa á seinni tímum med þjódunum, hefir einginn ollad svo mörgum og svo stórkostlegum breytíngum sem stjórnarbiltíngin mikla á Frakklandi. En rætur hennar liggja lángt að, má þeirra leita þegar á dögum Lodviks ens 14da, þar sem ofríki hans og ójöfnudur olli því, að Frakkar létu aldrei adrar þjódir í fridi, og eyddu fyrir þá sök ógrynni fjár. Komst þá ríkid í stór skuldir, er stórum jukust medan Lodvík 15di sat ad völdum. Þá voru og sidir ordnir mjög spilltir í landinu, medal ædri manna og lægri. Lodvík 16di hafdi ad sönnu allan vilja á ad hrynda þessu í lag en fékk ekki adgjört. Drottníng hans og hirdin eyddu öllu, enda var og konúngur of eptirlátur í mörgu. Var þá ýmsra bragda leitad til ad grynna á skuldum ríkisins, og létta sköttum á þjódinni. Ríkinu voru settir fjárhaldsmenn (Finantsminister) hver af ödrum, en allt kom fyrir ekki. Skuldirnar jukust ár frá ári. Þókti konúngi þá sem einu úrrædin mundu vera, ad kvedja menn til ens svo nefnda höfdíngjafundar *) (sammenkalde Notablerne), og bidja þá hjálpar (1786). En þeir brugdust líka. Var þá ekki annad eptir enn skora á þjódina sjálfa til lids og trausts, og stefndi konúngur til allsherjarþings ad Versölum (1789).

*) Til þessa þings kvaddi konúngur 140 manns, af lendum mönnum, klerkum og borgurum.

ingum, einkum klerkar og lendir menn, og leitudu marg ir af landi burt (Emigranter). Voru brædur Lodviks konúngs í þeim flokki, en sjálfur vard konúngur ad þola margar skapraunir af skrílnum, er opt var svo ei ter ad þjódværdurinn (Nationalgarden) og La Fayette foringi hans rédu eingu vid. Þá tók konúngur þad rád ad flýa, en nádist á leidinni, og var fluttur til Parísarborgar, og vard þá ad sverja, ad hann skyldi fylgja stjórnarskrá (Constitution) þeirri, er þá var fyrir hann lögd. En skríllinn lét ekki sefast ad heldur, og fór ad konúngi í höll sinni, drap vardmenn hans, tók hann höndum, og setti í hinn svo nefndi musteristurn. Þá voru og margir af konúngsmönnum vegnir í myrkvastofum, einkum 3ja og 4da dag Septembers mánadar 1792 (af því myndudu menn ordid: ad septembrisera). Þó var einn flokkur manna mikla ákafastur af öllum fjandmönnum konúngs, var sá kenndur vid eitt fornt og nidurlagt Jakobs klaustur, og kalladur Jakobs flokkur. Voru einkum teknir menn af þeim flokki í hid nýa þjódstjórnarrád (Nationalkonvent); er nú var tilsett, og sem lýsti því yfir, ad Frákkland væri þjódveldi (friveldi, Republik), og hóf nýtt tímatal frá 21ta degi Septemb. mán. 1792. Þessunæst var höfdad mál á móti konúngi, en honum þó leyft ad kjósa sér svaramann. Vard konúngur sekur landráda madur, og var dæmdur til dauda. Hann var leiddur undir Guillotins axir*), og höggv

---

*) Þetta nafnkunna mordverkfæri (Guillotinen) er kennt vid

inn 21ta Jan. 1793. Brádum hófst sundurþykkja med þeim er sátu í þjódstjórnar rádinu. Var flokkur Jakobs manna ákafari, en Gironde menn, (þeir voru flestir frá Gironda héradi) stilltari. Svo fór, ad Jakobsmenn höfdu betur, og létu höndla Girondamenn og drepa. Þá var þad ad Róbespierri, mann níd-ingurinn, nádi mestum völdum, og gjördist höfud þjódarinnar; hann grunadi hvern mann um svik, og lét drepa alla sem hann nádi til. Gvillotíns öxin var jafnan á lofti, og aftökustadurinn flaut í blódi. María Antonetta drottníng, systir Jósefs Austurríkis keisara, og Elísabet, systir Lodvíks 16da, voru bádar teknar af lífi. Tóku menn þá, á ýmsum stödum á Frakklandi, ad gjöra uppreist móti Jakobs mönnum, einkum í Lýonsborg og á Vendibygd (Vendée). En þeir sættu enum grimmustu refsíngum, og vildi Róbespierri láta rífa Lýonsborg nidur til grunna, og á Vendibygd voru menn drepnir hrönnum. Þjódstjórnarrádid sendi þángad þann mann er Karrier hét, og fór hann fram med ofbodslegri grimmd. Medal annars lét hann binda saman 2 og 2 menn, kall og konu, og snúa bökum saman og kasta í vatn; kalladi hann þad: þjódveldis kvonfáng. Um sídir þókti mönnum grimmd Róbespierra gánga úr hófi, og gjördu samtök móti honum, var hann þá gripinn, ákærdur fyrir hardstjórn og tekinn af lífi í Júlí mánudi 1794. Tímabil þad sem hann rédi mestu á Frakklandi, kalla menn: Rode-

---

Gvillotín lækni, er rédi mönnum til ad brúka þad aptur, en þad hafdi þá leingi legid kyrrt.

ekmann (Skrækpetiode, Terrorisme). Helztu aðstoðmenn Róbespierra voru þeir Danton og Marat. Marat var drepinn af konu þeirri er Karlotta Korday hét, en Danton eptir boðum Róbespierra.

Eptir daga Róbespierra var ný stjórn upptekin á Fraklandi 1795. Þjóðstjórnarráðið lagði niður störf sín en skipaði áður mönnum í 2 nefndir. Var önnur þeirra kölluð: Öldunga ráð, þar sátu í 250 manns og einginn yngri enn fertugur að aldri. Hin hét Yngri manna ráð, þar sátu í 500 manns, og einginn yngri enn þrjátygi ára. Skyldu hvarirtveggju nefndarmenn hafa löggjöf á hendi (den lovgivende Magt). En framkvæmdarvaldið (den udøvende Magt) höfðu 5 menn (Directorer, forstöðumenn), er kalla mætti: Landstjóra, og stjórn þeirra: Fimm manna stjórn (Directoriet).

Meðan þessu fór fram á Fraklandi, voru Frakkar komnir í stríð við flestar þjóðir í Norðurálfu, og veitti jafnan betur. Margir af þeim er flúið höfðu úr landi þegar stjórnarbiltíngin hófst, eggjuðu aðrar þjóðir til hefnda. María Antonetta drottníng (er Frakkar höfðu tekið af lífi) var systir Jósefs Austurríkis keisara. Hann andaðist 1790. Tók þá ríki eptir hann, Leopold annar, bróðir hans. Fridrik Vilhjálmur var Prússakonúngur; og Leopold keisari áttu fund með sér í Pillnitzborg, og ráðgjörðu að senda herlið á hendur Frökkum, og sefa ófrið landsmanna. En sem Frakkar sáu að ekki varð komist hjá stríði, sögðu þeir Franzi keisara öðrum, er kom til ríkis eptir Leopold keisara

föðum sínum (1792) stríð á hendur. Héldu nú Prússar og Austurríkis menn liði sínu til Fraklands, undir herstjórn Ferdínands Brúnsvíkur hertoga, hann var frægur herhöfdíngi úr sjö ára stríðinu. Stefndi hinn útlendi her til Parísarborgar, og mætti í fyrstu lítilli mótspyrnu, en bráðum tók annað við. Ferdínand hertogi hafdi gjört sér í huga, að Frakkar mundu enn vera líkir því sem þeir voru í 7 ára stríðinu, en það brást honum. Dumouriez hét einn frakkneskur herhöfdíngi. Hann fór með her í móti hertoganum, og bardust Frakkar svo djarflega, að sambandsherinn varð að halda undan, en Frakkar eltu þá til Niðurlanda, tóku landsmenn þeim feginsh hendi við Frökkum, því þeir undu illa yfirráðum Austurríkis manna. Hafdi þar jöfnvel orðið uppreisn á dögum Jósefs keisara, fyrir sakir breytínga þeirra, er hann gjörði á ýmsu, og einkum komu niður á klerkunum. Leópold hafdi að sönnu friðað þá aptur, en allt fyrir það gripu þeir tækifærið þegar það fékkst, til að sameina sig við óvini Austurríkis manna. Dumouriez átti orrustu við Austurríkis menn hjá Jemappa þorpi, (6ta Nóv. 1792), og lagði undir sig það er þeir áttu á Niðurlöndum (Belgialönd). En ári síðar beið hann ósigur hjá Neerwindi, og missti þá orðstýr sinn, því hann vildi þá gánga í félag með Austurríkis mönnum, og halda liði sínu til Parísarborgar, og koma á aptur konúngsvaldi; en liðsmenn vildu eigi fylgja honum. Varð hann þá að flýja til Austurríkis manna til þess að komast hjá lífláti. Árið 1793 þegar Frakkar höfðu tekið af lífi konúng sinn,

gjørdu 5 þjóðir sambánd sín á milli móti Frökkum. Það voru: Bretar, Hollendíngar, Spánverjar, Ítalir og Þjóðverjar, (i Coalition); áður áttu bæði Prússar og Austurríkis menn í stríði við Frakka. En þó fjandmenn þessir væru bæði margir og voldugir, veitti þó Frökkum jafnan betur. Bretar tóku að sönnu Toulonsborg, og herskip Frakka, þau er þar lágu fyrir, en skömmu seinna urðu þeir að hverfa þaðan aptur. Spánverjar héldu norður yfir Pýrenæafjöll, og tóku nokkrar borgir á Frakklandi, en Dugommier, frakkneskur hershöfðíngi vann þær allar aptur á Spánverjum, og elti þá suður yfir fjöll, átti við þá orrustur á Spáni og féll þar, þó feingu Frakkar sigur. Sömdu þá Spánverjar frið við þá í Basel, um midsumarsleiti 1795. Létu Frakkar laus lönd þau er þeir höfðu tekið frá þeim, og feingu þann hluta af St. Domingó-ey, er Spánverjar höfðu átt *). Gjørdu þá Spánverjar sambánd við Frakka og stóð það lengi síðan. Eptir að Prússar og Austurríkis menn höfðu leingi átt í óeyrðum við Frakka, og einatt veitt erfiðt, og beðið ósigur fyrir enum frakknesku herforingjum Jourdan og Pichegru, sömdu Prússar frið í Basel, sama sumarið sem Spánverjar. Skyldu Prússar láta laust það er þeir áttu, fyrir vestan Rína, en fá aptur skaðabætur, þegar almennur friður kæmist á. Svo skyldi

*) Frakkar höfðu litil not af þeirri eyu, Blökkumenn gjørdu uppreisn, og eptir margar styrjaldir brutust þeir undan veldi Frakka. Fóringjar blökkumanna hétu: Toussaint, Dessalines og Kristófer, er hvør tók við eptir annan.

og Prússakonúngur sjá um ad Nordur Þýzkaland héldi frid vid Frakka.

Eingu midur gekk Frökkum á Hollandi. Undir árslokin 1794 voru ísalög þar í landi, og gekk Pichegru med lidi sinu á ísum yfir fljót og ár, sem þar eru vída. Lagdi hann landid allt undir sig, en landstjórinn, Vilhjálmur 5ti frá Oranín, flýdi yfir til Englands. Var sídan Holland kallad Batavíu Þjódveldi, og stjórnarformi allt lagad eptir því sem þá var á Frakklandi, og gjördu þessi tvö ríki félagskap med sér. Fyrir þá sök hófst ófridur milli Hollendínga og Breta. Misstu þá Hollendíngar margar af nýlendum sínum, og allan herskipaflota sinn, sem hinn enski herskipaforíngi Dúnkan lagdi í eydi vid Hollands strendur.

Bretar, Austurríkis menn og Þjódverjar héldu áfram ófridi vid Frakka. Var fimm manna stjórnin á Frakklandi einkum heppin med ad velja hershöfdíngja, t. a. m. Moreau (Moró), en þó einkum Bónaparte, sem lángt bar af öllum ödrum hershöfdíngjum þótt miklir væru.

## Frá Napóleoni Bónaparte.

Hann er fæddur á Korsíku-ey, í borg þeirri er Ajaccio heitir, 15da dag Agústi mánadar 1769. Þegar í barnæsku hans, bar á því ad eitthvad mikid bjó í honum; var þad eitt, ad hann vildi ná Korsíku undan Frökkum og gjöra ad fríveldi. Hann kom á únga aldra til Frakklands, og var settur þar í foríngjaskóla, lagdi hann þar flesta stund á mælíngafrædi,

og allar þær vísindagreinir er herforingjar þurfa nema. Þegar Frakkar náðu aptur Toulonsborg handum enskra manna, sýndi Bónaparte með hug sínu og hreysti, að hann var hið besta foríngja e[fni] enda varð borgin unnin með hans ráðum. Dugo mier hershøfdingja fannst svo mikið til um hann, hann ritaði ríkisstjórninni í Parísarborg, biður h[ana] giøra Bónaparte að herfylkingarforingja (Brigadegenera[l]) og segir meðal annars: launið vel þessum manni ( látið hann ná að framast, því, ef þér giør[ið] það ekki, mun hann giøra það sjálfur. Nokk[ru] síðar styrkti Bónaparte landstjórana kröftuglega, til ( sefa óeyrðir nokkrar í Parísarborg. Í Marts mánu[ði] 1796 var hann settur yfir herlið Frakka á Italíu. V[ar] það að sönnu hið tignarlegasta embætti, en því fylgi[di] einnig mikill vandi og hætta. Herliðið skorti all[t] klæði, vistir og fé, en við ofurefli að etja þar se[m] Austurríkis og Sardiníu menn höfðu, bæði mikil[l] lið og vel búið, og stýrðu því enir æfðustu hershøfð-ingjar. Þá urðu einhverjir til að segja við Bónaparte, að nú feingi hann að reyna sig við gamla hershøfðingja, en hann svaraði: að ári liðnu verð eg einnig orð-inn gamall, eður að øðrum kosti fallinn.

Þegar hann hafði tekið við herstjórn á Italíu urðu skjót umskipti, þann hann hverja sigurinn á fætur øðrum. Varð Sardiníu konúngur að beiðast friðar og láta af hendi við Frakka, hertogadæmið Savojen, og greifadæmið Nizza. Þannig afrekaði Bónaparte það á 14 døgum, sem stjórnin frakkneska gat ekki til leið[ar]

komid á 3 árum. Nú gat hann betur snúist vid Austurríkis mönnum. Hélt hann þá lidi sínu austur á Lángbardaland (Lombardiet) til móts vid þá, þar átti hann mannskæda orrustu hjá Lódibrú á Addelsá og fekk sigur. Eptir þá orrustu gekk Lángbardaland allt á hans vald, nema hin rambygda Mantúaborg; um hana var barist af miklum ákafa. Vördu Austurríkis menn, en Frakkar sóktu ad. Fjórumsinnum sendi keisarinn her manns til lids vid borgina; en Bónaparte og herforingjar hans: Augereau (Ósjeró) og Masséna, unnu alla þá herskara og eyddu þeim (hjá Arkole, Rivóli, Kastiglióne og Róveredo). Vard Mantúa loksins ad gefast upp. Þar feingu Frakkar 500 fallbissur og annan herbúnad, en veittu hershöfdíngjum keisara heimfararleisi vid nokkra menn. Í öllum þeim löndum sem Bónaparte hafdi brotid undir sig á Efri Italíu, setti hann nýa stjórn og sameinadi í eitt ríki er hann kalladi: hid Cisalpíendiska þjódveldi (den Cisalpinske Republik). Seinna var þad kallad: hid ítalska.

Medan þessu fór fram á Italíu, héldu þeir Moreau og Jourdan (Sjúrdan), lidi sínu, yfir Rínó, austur á Þýzkalandi, og er ad því var komid ad þeir mundi sameina hvorutveggja herinn, rédist Karl erkihertogi, Leópoldsson brodir Franz keisara, ad Jourdani, og vann sigur á honum. Vard þá Moreau ad halda lidi sínu aptur vestur yfir Rínó. Vard hann mjög frægur af þeirri ferd, og hafa menn líkt honum vid Senófon hinn gríska. Þannig frelsadi

Karl erkihertogi Þýzkaland í það sinni. Helt h
síðan til móts við Bónaparte, er þá hafði lagt u
sig alla efri Italíu, einsog ádur er sagt. En þó s
væri afbragds hershøfdíngi, þurfti hann ekki ad re
sig við Bónaparte. Og þegar fundum þeirra
saman, varð hertoginn ad láta síga undan. Nú h
og Moreau aptur tidi sínu austur yfir Rínná. Þó
Franzi keisara þá óvænlega áhorfast, og samdi frið v
Frakka í Kampo Formio (1797, 17 Octób.). Le
keisarinn af hendi til Frakka: Belgjalønd, og til ei
Cisalpíendíska þjóðveldis, það er hann átti af Lángbard
ríki, en fekk aptur mestan hluta af Feneya þjóðveld
Þetta hið forna og voldnga ríki hafði ætlað sér ad berj
móti Frøkkum, en þeir urdu fyrri til, og sendu þán
ad her manns, og kollvørpudu ríkisstjórninni. Slík ai
deif hlaut Genúa þjóðveldi, er nú fekk frakkneski
Stjórnarløgun, og nefndíst: Ligúrín þjóðveldi (Ligur
iske Republik). Eyar þær 7 er liggja í Jóna hafi,
urdu þjóðveldi og sjálfra sín rádandi, en ádur lágu
þær undir Feneyar. Þetta ár, undir árslokin hófst
samkoma mikil í Rastad, var þar leitad um sættir
milli Frakka og Þjóðverja.

Litlu eptir fridargjørdina í Kampo Formió (um vorið 1798), var Bónaparte sendur með 40,000 hermanna til Egyptalands, til ad fá þar skadabætur fyrir nýlendur þær, er Bretar høfdu tekið frá Frøkkum í ødrum heimsálfum, og ad því er sumir segja, til ad rádast þadan á landeignir Breta í Austur-Indíum. Bónaparte lagdi út frá Toulonsborg, kom við Malt-ey

leidinni, og lagdi hana undir Frakka. Helt sídan til Egyptalands, og gjørdi herhlaup á Alexandersborg, og tók hana. Þadan stefndi hann lidinu til Kairo, høfudborgar landsins; rédust þá Mamelúkkar til móts vid hann. Þeir voru hid fræknasta riddaralid í heimi. Bónaparte átti vid þá nokkrar orrustur og fekk í øllum sigur. Sídan tók hann Kairoborg, og bjuggu þar fyrir 300 þúsundir manna. Medan þessu fór fram, var hinn vídfrægi enski herskipaforíngi Nelson farinn af stad ad leita herskipa þeirra enna frakknesku er lagt høfdu út frá Toulonsborg. Nelson tók optur Maltey, og hitti loks flotann á Abúkirshøfn vid Egyptaland (1 Agúst 1798). Tókst þar strax einhver hin mesta sjóorrusta í øllum þessum ófridi. Þegar orrustan stód sem hæzt, læsti eldurinn sig í púdurhúsid á enu frakknesku foríngjaskipi. (Admiralskip). Þad bar 120 fallbyssur, og 1000 manns. Skipid flaug í lopt upp, vard þá brestur svo mikill ad landid skalf umhverfis, en hvoritveggju herinn hætti bardaganum um stund. Þar fekk Nelson sigur, en Frakkar létu skip sín øll, nema 4 er undan komust. Af siglutré ens frakkneska foríngjaskips eignadist Nelson líkkistu sína er hann hafdi jafnan med sér sídan. Eptir orrustuna hjá Abúkir, hættu ad sønnu allar samgaungur milli Frakklands og hersins á Egyptalandi, en Bónaparte fór þó øllu sínu fram sem ádur. Hann herjadi á Sýrland, og settist um Akraborg (Acre), en vard frá ad hverfa vid svobúid. Og med því honum kom sú fregn af Frakklandi, ad þar væri rád manna á reiki, en herinn bedid ósigur

bædi á Þýzkalandi og á Italíu, þá rédi hann af, ad setja Kleber hershøfdingja yfir herinn á Egy landi, en fara sjálfur heim aptur til Frakklands. Þad hin mesta hætta, því Bretar høfdu þá fjølda skipa í Midjardarhafi, og héldu njósnum hvørjir færu hafid. Komst Bónaparte fram hjá óvinum sínum h og hølbnu til Frakklands (9da Oct. 1799). Fékk bædi rikisstjórn og hernadur Frakka adra stefnu, komu hans.

Fundinum í Radstad var slitid, fyrir því me gátu ekki ordid á eitt sáttir *). Frakkar høfdu sme sér inní málefni Sveizalands, og þraungvad land mønnum til ad taka upp nýa stjórnarløgum, og fein vid þad fótfestu í landinu. Slíkt hid sama høfdu þ gjørt í Páfaløndum (Kirkestaten) á Italíu. I sønnu hafdi Bónaparte samid frid vid Páfa, og páfin látid hann fá Avignon og þó meira, en allt fyr þad voru margir óánægdir í Rómaborg, og vildu þjódveldisstjórn. Hófst þá uppreistin, og féll Duf hershøfdingi, mágsefni Bónaparta. Vard þad tilefn til þess ad Frakkar tóku Rómaborg, stofnsettu þar róm verskt þjódveldi, en høfdu Pius páfa, enn 6ta, á tædann mann, til Frakklands, og þar deydi hann.

Þá gjørdu Austurríkis menn samband vid Rússa

*) Þá er sendiherrar Frakka sneru heim af fundinum í Ra stad, og voru skamt eitt komnir, rédust ad þeim vopnadir menn í bulgrklædum, og drápu 2 af þeim, en 1 komst undan. Vísir menn aldrei hvørjir unnid høfdu þetta nídings verk, en Þý mæltist fyrir því, sem von var.

Breta, Tyrki og Neapels menn (2 Coalition). Hosu Neapelsmenn ófridinn, og héldu her sinum til Rómsi. Hørfudu Frakkar þá undan, en ekki þó lengi. Makdonald og adrir hershøfdingjar þeirra, møruss við Neapelsmønnum, og unnu á þeim sigur. Makk hét sá er þeim styrdi, hershøfdingi Austurrikis keisara. Frakkar færdu sér í nyt sigurinn, og héldu til Neapelsborgar. Var þar hid mesta skjólleysi fyrir. Makk vard jafnvel ad sjá á nádir Frakka, til þess ad falla ekki fyrir motdrøpinum Neapelsmanna. Konungur þeirra stýdi til Sikileyar, en Kampíonet hershøfdingi Frakka tók Neapelsborg; og átti ádur hárda orrustu vid Lazaróna „þorpárana," sem eyda lífsstundinni sinum í leti og ómennsku". Þar settu Frakkar á stofn nýtt þjódveldi, og nefndu þad: parþenna þjódveldi (Meylendíngarikt, Partenopæiske Republik). En þad ríki vard ekki lángliff. Um þær mundir høfdu og Frakkar herlid á Sardiníalandi, því þeir grunudu landsmenn um samtøk vid óvini sína. Vard konungur þeirra ad flya útí Sardínar ey, og settist ad í Kaglíarborg. En Frakkar bjuggu skamma stund ad sigri þessum. Rússar og Austurrikis menn sigrudust á þeim í mørgum orrustum, og ránnu hvínær ak Italíu undan þeim. Atti hinn grimmi Súvaróv Rússafoíngi, mikinn þátt í því. Þá kom og nýr páfi til ríkis, Píus hinn 7di med því nafni, og allt var sett í sama horf sem ádur. Eptir þad vildu Rússar og Austurrikismenn, reka Frakka úr Sveizalandum. Karl erkihertogi brauzt þángad, en Massena tók djarflega á móti, þó nádi Karl allt

ad því hálfu landinu úr høndum hónum. Á sömu
stad brutust inn í Sveiz, Korsakov med Rússa
og Hoze med Austurríkis her. En þar snérist Masse
svo karlmannlega vid, ad Hoze féll, en Korsakóv m
nálega allt sitt lid, og flýdi nordur yfir Ríná. Lit
eptir þad kom Súvaróv ad sunnan med her sinn,
sem hann frétti ófarir landa sinna, treysti hann e
ad leggja til bardaga vid Massena, heldur beygdi ha
vid austur á leid og hélt svo nordur á Þýzkalan
Voru Frakkar jafnan í hælum hans, en Súvaróv bar
allt frá sér sem nærri honum kom, og brauzt leid sín
Eptir þad áttu Rússar lengi ekki í orrustum vid Frakk
Olli því sæd sú er gjørdist med Páli Rússakeisara o
Bretakonúngi. Þókti keisara Bretum ekki hafa fari
afvel vid rússneskan herflokk, er ásamt þeim gjørdi land
gaungu á Holland*). Auk þessa þókti honum þad vi
Breta, ad þeir vildu eigi fá honum aptur Maltey
þótt hann væri kjørinn Yfirhøfdíngi (Stormeister)
Jóhannesar riddara. Litlu sídar sagdi hann Bret
um stríd á hendur.

Frakkar máttu ad mestu leiti kenna Fimm manna
stjórninni um óhøpp sín í þessu strídi. Var þad

*) Seint á sumri 1799, rédu Bretar og Rússar til land-
gaungu á Holland, og voru saman 25000 manna, undir her-
stjórn Jórvíkur hertoga. Þar kom Brune hershøfdingi til móts
vid þá med Frakka her, og átti vid þá orrustu, lauk svo, ad
Frakkar tóku enn rússneska fóríngja høndum, og marga menn med
honum, og litlu sídar vard hertoginn ad géfast upp fyrir Frakk-
um, en fékk þó heimfarar leifi, med því skilyrdi ad 8000 Frakk-
ar sátu herteknir á Englandi, feingi lausn.

ardi, ad hún var sjálfri sér sundurþykk, og hafdi litla yrirhyggju fyrir ad hérinn hefdi þad hann vidþurfti, nda bar þjódin litid traust til hennar. Var þá mikill urr á Frakklandi.

Nú er ad segja frá því ad Bónaparte kémur apt- ur af Egyptalandi. Er þad þá eitt hid fyrsta sem hann idhefst, ad hann kollvarpar landstjórunum (Fimm manna stjórninni) med rádum og adstod hins fræga Sey- ésar og Lúcians bródur síns. Mætti Bónaparte all mikilli mótstødu, og vantadi lítid á, ad þad yrdi hans bani. Þegar hann kom inn í rádherra salinn, þar sem enir yngri rádherrar sátu, æptu menn ad honum og søgdu: Vertu á brott hardstjóri! Hopadi hann þá út úr salnum, og hét á lidsmenn sína. Rydjast þeir inn í salinn, med alvæpni, en rádherrar hrukku út um gluggana. Þetta vard tídinda 10 Nóv. 1799. Fimm vikum sídar høfdu menn samid nýa stjórnarskrá. Þar var svo ákvedid: ad 3 menn, er nefndust rædismenn (Consules), skyldu stýra ríkinu. Þau vøld skyldu þeir hafa 10 ár. Hinn ædsti af rædismønnunum þessum hafdi þvínær ótakmarkad veldi. Og mátti fremur kalla Frakkland einvaldsríki enn þjódveldi. Napóleon Bónaparte vard ædsti rædismadur; hinir tveir: Cam- baceres og Lebrun, voru fremur vottar hans, enn valdabrædur. Nokkru sídar var Bónaparta heitid ræd- ismanns vøldum æfilángt. Þegar Bónaparte hafdi koll- varpad Fimm manna stjórninni, og var sjálfur kominn til ædstu valda, var þad hans hid fyrsta, ad safna lidi og frelsa Massena hershøfdingja, þar sem hann

sat í Genúaborg, umkríngdur af Austurríkis mön-
um. Þá var það, að hann fór sem Hannibal fo
um með her sinn yfir Mundíafjöll (Alpes). Ko
Austurríkis mönnum það mjög á óvart og höfðu
viðbúnað á móti. Á fáum dögum vakti Bónapar
aptur til lífs hið Cisalpínska þjóðveldi. En um þ
leiti varð Massena að gefast upp í Genúaborg, e
var þá ógurlega aðþreyngdur af húngri. Höfðu Au
urríkis menn ráðgjört að hætta umsátrinu og hverf
frá, þann dag sem Massena gafst upp. Melas yfi
hershöfðingi Austurríkis keisara, á Ítalíu, bjóst n
þessar mundir að halda með her manns vestur í
Frakkland, en sem honum kémur sú fregn, að Bóna
parte er kominn suður yfir Mundíafjöll, og tekur hverj
borgina á fætur annari, bregður hann við, og heldu
til móts við hann, varð fundur þeirra á Marengó
völlum (14. Júní 1800), sóktu þar en hraustasta m
usta, og er menn höfðu lengi barist, og hardaganum tók
að halla á Frakka, kom Desaix (Desä) hershöfðingi
að, með óþreyttu liði, og réðist á enn vinstra fylkíng
ararm Austurríkis manna, brast þá flótti í lið þeirra,
og feingu Frakkar sigur. Sú orrusta stóð 13 stundir.
Desaix varð sár til ólífis þegar í öndverðri ákomunni.
Þá mælti hann til eins af félögum sínum: berðu
ræðismanninum kveðju mína, og segðu honum, að
mér svíði það nú fáröst, hvörsu lítið liggur eptir mig,
svo nafn mitt líður skjótt út minnum eptirkomand
manna. Eptir það andaðist Desaix. Hann var en
mesta hetja og enn besti drengur.

Þessi sigur veitti Frökkum aptur allt sem þeir höfdu misst árinu ádur á Efra Vallandi.

Á Þýzkalandi unnu Frakkar einnig sigur þetta ár: Moreau átti mikla orrustu vid Jóhann erkihertoga hjá Hálindar-þorpi (Hohenlinden), 3. Dec. 1800, og vann frægan sigur, og rak flóttann til Austurríkis. Samdi þá keisari frid í Luneville (í Febr. mán. 1801) Skyldi Rínar vera landamerki Frakkanna: Keisarinn kannadist vid hid Cisalpinska edur Italska þjódveldi, sem þad nú kalladist, og fékk í skadabætur fyrir Belgjalönd og Langbardaland, mikinn hluta af Feneyjaríki. Prussar fengu lönd á Vestfali og af Erkibiskupum, í stad þeirra er þeir létu til Frakka fyrir vestan Rínar. Toskanaríki, er ádur var Stórhertogadæmi fékk hertoginn yfir Parma, og varð nú hvorttveggja eitt konungs ríki og kallad Etrúria. En Stórhertoganum og hertoganum yfir Módena-ríki, var heitid skadabótum á Þýzkalandi. Á þjódfundi í Regensborg voru sídan metin og jöfnud málefni þjódverja. Lögdust þá nidur mörg forn kjörréttindi einnar andligu stéttar; en önnur ný komu í þeirra stad.

Nú stódu Bretar einir eptir af öllum fjandmönnum Frakka, en þeir voru líka enir skædustu. Frakkar höfdu jafnan bedid ósigur fyrir þeim í sjóorrustunum, og látid fjölda skipa. Og uppreist sú, er þeir ætludu ad koma fótum undir á Írlandi, forst fyrir. Kleber hafdi tekid vid yfirrádum á Egyptalandi, þá er Napóleon fór þadan, eins og ádur er sagt, og stýrdi öllu med stillingu og vitsmunum. En hans naut eigi lengi

vid, og var hann myrdtur (14. Jún. 1800) af ei þeirra Mameluckanna. Tók þá Menou hershöfð vid stjórninni, en hann var ekki Klebers maki, og m ad gefast upp fyrir Bretum og fara burt af Egyp landi med menn sína.

Í Marts mánudi 1802 var fridur saminn m Breta og Frakka í Amiensborg. Skiludu þá Eng menn öllu því aptur, er þeir höfdu tekid frá Frakku nema Ceylons-ey vid Austur-Indíu strandir, er H lendingar höfdu átt, og Þrenníngar-ey (Trinidad Vestur-Indíum, er Spánverjar létu af hen Þannig komst fridur á í Nordurálfu, en hann stód e leingi. Rédi nú Bónaparte einn öllu á Frakkland og þókti ærid framkvæmdarmikill. Tóku Frakkar mi um framförum bædi í vísindum og velmegun. En vi Bónaparta líktist því meir einvaldsstjórn, sem han hafdi það leingur. Fjölgudu þá sem mest óvildarmen hans, vildu sumir hafa þjódstjórn, en adrir vildu hef aptur til ríkis ættlegg Bourbonna. (Sú ætt sat a ríkjum á Frakklandi frá 1589, er Hinrik 4di kom ti ríkis og til þess Lodvík 16di var veginn 1789). F voru og ýmsar tilraunir gjördar til ad ráda Bóna parta af dögum, en menn komust fyrir þær allar, og fyrir því vard þeim ekki framgeingt. Þá var það a Pichegru, hershöfdingi, sá er Holland vann, gjörd samtök vid nokkra menn til ad drepa Bónaparte, en svo fór, ad bert vard um rádagjörd hans, var hann þá tekinn höndum og settur í myrkvastofu, og dó þar. Móreau, hinum fræga hershöfdingja, var og eignad

d hafa útt hátt í samferinni, var hann einnig tekinn og gjör útlægur, og vard hann þá ad fara til Nord-ur-Ameríku.

Nú vard þad þessu næst ad hvorirtveggju, Frakk-ar og Bretar, tóku ad búa lid sitt, og hafa mikinn við-búnad. Sendir Bónaparte herhöfdingja, hann er Mortier hét, med miklu lidi til Hannófra ríkis; og nam med Bretlands fundi (Kanalen) lætur hann búa mörg skip og smá, og bregur þangad saman her manns. Ætludu menn ad sá her skyldi gjöra landgaungu á Bretland, en af því vard þó ekki.

## Frá því er Bónaparte vard keisari og frá vidureign Frakka og annara þjóda.

Um þessar mundir var uppgángur Bónaparta sem mestur. Frægd hans og veldi jóku dagvaxandi, og loksins vard hann keisari 2. Dec. 1804, og vorid eptir konúngur yfir Italíu. Sídan var hann kalladur: Napóleon enn fyrsti, keisari yfir Frakklandi, og konúngur á Italíu. Mánudi sídar enn hann vard keisari, ritadi hann Georgi 3ja, Engla konúngi, eitt-hvar vinsamlegt bréf, og segir þar medal annars: ad hann óski fridarins af hjarta, en þótt hann hafi aldrei hræzt ófrid, né bedid vansæmd af. Georg konúngur lét ráð-gjafa sinn, þann er Múlgrave hét, rita aptur Tall-eyrandi, rádgjafa Napóleons, og segja: ad hann yrdi fyrst ad vita, hvad adrir þjódhöfdingjar, vinir sínir, á meginlandinu ætludu sér, ádur hann gæti svarad Napó-leoni beint til bréfs þess er hann hefdi ritad sér. En

borgar. Var Frans keisari flúinn þadan med hird sína, til Brunnsborgar á Mæri. Þá var Rússa her kominn austan, undir forustu Kútúsofs og Búxhöfdens, og sem þeir fréttu ófarir Makks, halda þeir fyrir nordan Dóná, austur á Mæri, og slá þar lidi sínu saman vid Austurríkis menn. En sem Napóleon hefir komid þeim á þann reit, er hann vill, (en þad var hjá Austerlitz-þorpi), þá mælti hann: nú hefi eg þenna her í hendi mér! Daginn eptir (2. Dec. 1805) stód sú nafnkénnda orrusta hjá Austerliz, fékk Napóleon þar mikinn sigur. Voru bædi Rússa- og Austurríkis-keisari vidstaddir, og sáu ófarir sinna manna. Mælt er, ad þar hafi fallid 30,000 manna af hvörutveggjum, en 15000 manns, og 100 fallbyssur komust í hendur Frakka. Eptir þessa orrustu, sömdu þeir, Napóleon og Frans, frid med sér í Presborg (26 Dec.). Vard Frans keisari ad láta af hendi Feneyar lönd, er leggjast skyldu til Italíu, og Tyról er bættist vid Bæaraland. En Bæaraland og Wurtenberg, er ádur voru kjörfurstadæmi, urdu nú konúngsríki. Feingu og þessi nýordnu konúngsríki, ýms héröd frá Austurríki. Alexander Rússa keisara voru bodnar sættir, en hann tók þeim fjærri.

Öndverdlega á árinu 1806 sendi Napóleon herlid til Neapels móti Ferdínandi konúngi, fyrir þá sök,

---

gjördust þá Enskir menn svo ódir ad ekkert héltvid. Og svo lauk ad Gravina flýdi med 10 skip til Kadixborgar, og komst naudugloga undan. Öllum ödrum skipum eyddu Enskir menn eda tóku.

ad Neapels konúngur, en þótt hann ætti ad heita
sátt vid keisarann, hafdi leyft Enskum mönnum og rí
nesskum landgaungu, og setid adgjördalaus medan þ
drápu Frakka þar í landi. Flýdi nú Ferdínand k
úngur til Sikileyar, en Jósef bródir Napóleons, gjör
ist konúngur yfir Neapels ríki. Þetta hid sama á
vard annar bródir Napóleons, sá er Lodvík hét, kon
úngur á Hollandi. Um midsumarsleiti þetta ár, (12
Júl.) hófst og félag þad, er kallad var: Rínarsam
band, geingu 16 höfdíngjar í þad af Þýzkalandi. E
Napóleon setti þad á stofn, til varnar móti enum
nordlægu ríkjum, Rússaveldi og Prússalöndum. Skyld
höfdíngjar þeir er í sambandid geingu, ætíd hafa vi
búnar 63 þúsundir manna, þá er Frakkar þyrftu lid
vid. Sjálfur var Napóleon verndari (Protector) fé
lagsbrædra þessara. Sögdu þeir nú skilid vid Frans
keisara, og vard hann ad leggja nidur nafnid: Þýzka
lands keisari, og kalla sig Austurríkis keisara. Hef
ir þad nafn haldist sídan. Margir af vinum og ætt
mönnum Napóleons komust þá til upphefdar, og urdu
lendir menn, þannig vard Jóakim Murat, mágur
Napóleons, Stórhertogi yfir Bergi; Evgen Beauh
arnois (Evsjen Boharnea), stjúpsonur Napóleons, og
kappi mikill, skyldi erfa konúngstign á Jatalíu eptir
Napóleon, en heita undir konúngur (Vice-konúng
ur) medan keisarinn lifdi. Berthier hershöfdíngi fékk
til umráda Nýkastala fylki í Sveiz. Í Feneya
löndum enum fornu hófust ýms ný hertogadæmi, er
hershöfdíngjar og gædingar Napóleons feingu: t. a. m.

Dalmatia, Istria, Friúl, Zadóre, Bellúno, Conegliano, Treviso, og sl. er þessir feíngu: Soult Bessieres, Duroc, Champagny, Victor, Moncéy, Mortier, o. s. fr.

Snemma á þessu ári andadist Pitt (æzti rádgjafi Engla konúngs), er verid hafdi hinn skjædasti óvinur Frakka. Kom þá Fox í stad hans. Fox var enn mesti mælskumadur, eins og Pitt hafdi verid, en vinur Napóleons, og dróg þad til þess, ad farid var ad tala um sættir milli Frakka og Rússa og Englismanna, en Fox andadist um haustid sama ár, og vard þá ekki af sættum.

Nú er ad segja frá Prússum; ad þeir sáu, þótt seint væri, ad þeir höfdu setid adgjördalausir helzt ofleingi, enda hafdi Napóleon gjört þeim margt til skapraunar. Gjördi nú konúngur þeirra, Fridrik Vilhjálmur enn þridji, samband vid Rússa og Breta og býr lid sitt. Setur hann Ferdinand Brúnsvíkur hertoga yfir herinn. Hann hafdi verid en mesti kappi, en var nú hnígin mjög á efra aldur, og var ekki vel kunnugt um hernadar adferd Napóleons, en hún var næsta ólík enna fyrri manna. Prússar höfdu mikid lid og fridt, 120 þúsundir manna, en hershöfdíngar þeirra voru annadhvört gamlir menn edur lítt æfdir. Stefndu þeir nú lidinu vestur á leid til Frakklands. En er þá vardi sem minnst, var Napóleon kominn ad baki þeim, og hjá Jena og Auerstädt vann hann hinn frægasta sigur á Prússum (14. Okt. 1806). Ferdínand hertogi vard sár þegar í öndverdri orrustu, og dó litlu sídar. Gekk þá hvört kastalinn á fætur ödrum á hendur Frökkum, og 6 vikum eptir orr-

borg þeirri er Tilsit heitir, (7 Júlí 1807), mi Frakka og Rúsöa, og 2 dögum sídar millí Frakka o Prúsöa. Fékk þá Rúsöakeisari nokkurn hluta Pólln lands. Prúsöa konúngur fékk ad halda konúng nafni, af miskun Napóleons, og sakir virdínga hans vid Rúsöakeisara, en helfíng ríkis síns mi hann, og fékk Napóleon sumt af því, Saxlands kon úngi í hendur; sumt lagdi hann til hertogadæmis þe ens nýa, er hann kalladi Varská (Póllnaland); en hi vestlægu heröd af Prúsöa ríki, lagdi keisarinn til ein nýa konúngsríkis á Vestfali. Það ríki gaf hann bróð ur sínum Hieronýmusi. Fékk Napóleon þannig al yfirráð á Þýzkalandi.

Skömmu eptir orrustuna hjá Jena (1806), medan Napóleon dvaldist í Berlín, setti hann það í lögum, ad Frakkar og bandamenn þeirra í Nórdurálfu skyldu eingá verzlun eiga vid Breta, edur landeignir þeirra í ödrum heimsálfum, en öll þau skip er breyttu móti bodi þessu, og allur varníngur enskur skyldi upptækur hvar sem hittist. Hafa menn kallad lagabod þetta: meginlands bann (Continental System), fyrir þá sök, ad Napóleon vildi þraungva öllum þjódum á meg inlandinu til ad hlýdnast því. Bretar létu ekki leingi bída ad hefna sín. Trufladist þá öll verzlun manna og vidskipti, nálega um allan heim, fyrir sakir fjandskap ar og ofríkis þessara tveggja þjóda.

Ein af þeim þjódum er var í sambandi vid Napóleon, og einna helzt fékk ad kenna á hatri Engl ísmanna, voru Danir. Seint á sumri 1807, sendu

rekar flota mikinn til Eyrarsunds, og heimtudu ad Danir seldu sér af hendi herskip sín. Því neitudu Danir. Settust þá Bretar um Kaupmannahøfn og voru frekar 40,000 manns, en Danir høfdu lítid lid í borginni, nálægt 5 þúsundum hermanna, og 3 þúsundum ýmsra manna er lítt voru vopnum vanir. Sá hét Peymann er þá hafdi herstjórn í Kaupmannahøfn, hann var þá á gamals aldri, og kalladur eingínn kappi. En konúngurinn Kristján 7di, og Fridrik son hans, konúngsefnid, voru á Holsetalandi med megin her Dana, til ad verja landamærin, því þá var mjøg róstusamt á Þýzkalandi. Bretar gjørdu harda skothríd á borgina, og brenndu 300 húsa. Sáu þá Danir sitt óvænna, og beiddust grida. Vard sættum ákomid med þeim kostum: ad Bretar skyldu fá øll herskip Dana, hafa øll umrád yfir kastala og høfn borgarinnar, um 6 vikna tíma, en vera á brottu þadan ad þeim tíma lidnum. Bjuggu nú Bretar herskip Dana af miklu kappi til burtsiglingar, og á ákvednum tíma héldu þeir burt frá Kaupmannahøfn, med 18 línuskip, 15 fregátur og 30 skip smærri. Fridrik konúngsson vildi ekki samþykkjast uppgjøf Peymanns, og sagdi Bretum stríd á hendur. Lendti sá ófridur mest í því, ad Bretar og Danir tóku kaupfør hvørir fyrir ødrum. Þá søgdu, og Danir Svíum stríd á hendur, því þeim þókti þeir ótryggilegir. Um þær mundir (1808), andadist Kristján konúngur enn 7di, en kom til ríkis Fridrik enn 6ti, sonur hans. Voru þá Danir í vanda miklum, eins og ad líkindum rædur. Það

ár héldu Svíar her sínum til Noregs. Tóku No
menn hraustlega á móti, og ráku þá af höndum
Var þá Kristján Ágúst, frá Ágústaborg, fyrir
Norðmanna; hann hafði þá landstjórn í Noregi fy
hönd Dana konungs, og þókti gott höfðingja ef
Um þessar mundir létu Svíar Finnland fyrir Rú
um. Var þá mikill kurr í Svíum, og kómst svo,
þeir hlupu upp til óeirða gegn konungi sínum, G
stafi enum 4da, Gústafssyni ens 3ja, og ráku ha
frá völdum (13. Marts 1809), en tóku [illegible] konún
Karl hertoga af Súðurmannalandi, föðurbróður G
stafs fjórða: Karl var hinn 13di með því nafni. Það
sömdu Svíar frið við Rússa og Dani. Karl konún
ur átti ekki barna, og tók sér í sonarstað Kristján Á
gúst, hann er áður var nefndur, en hann andaðist lít
síðar, og lékkur mikill grunur á að hann hafi dáið a
eitri. Kjöru þá þjóðfulltrúar enn frakkneska hershöf
íngja Bernadotte til ríkiserfingja í Svíþjóð, og tó
Karl konúngur hann sér í sonar stað. Tók þá Berna
dotte við trú Prótestanta, breytti nafni, og nefndi sí
Karl Jóhann. Þá er ófriður hófst aptur milli Frakk
og Rússa (1812), gengu Svíar í lið með Rússum,
með því skilyrði: að Rússar styrktu þá til að ná
Noregi undan Dönum. Gjörðist þá konúngs efni
Svía, æðstur foríngi fyrir liði bandamanna á Norður-
Þýzkalandi. Eptir orrustuna hjá Leipzig (1813),
réðist Karl Jóhann á Hólsetaland, og þröngvaði
Danakonúngi til að semja frið í Kíl (1814). Létu
þá Danir Noreg af hendi til Svía, en fengu apt

e Rex-ey, og hann hlaut Vindlands er Gotar áttu; Þeßir: Dana konúngur síðan látið þau lönd til Prússa, en feingið aptur Láenborg og nokkurt fé í kaupbæti arum. Vildu Norðmenn í fyrstu ekki gánga undir Svía, og tóku til konúngs yfir sig Kristján Friðrik, landsstjóra sinn. Hann var náfrændi Friðriks konúngs ns 6ta, og erfði síðan ríki í Danmörku eptir hann, sem og kunnugt er orðið. En svo fór að Norðmenn urðu undan að láta, og samþykktist Karl konúngur inn 13di stjórnarlögum þá er þeir höfðu sett sér, og sem mjög er frjálsleg, og miðar til að varðveita og efla þjóðfrelsi landsmanna, hefir Noregur síðan tekið stór-miklum framförum. Karl konúngur andaðist 1818; kom þá Karl Jóhann (hinn 14di) til ríkis, og hef-ir þókt merkur konúngur að mörgu.

Nú víkur sögunni aptur til Napóleons keisara, og þá fyrst vestur á Spán. Þar réði fyrir sá kon-úngur er Karl hét, hinn fjórði með því nafni, hann var hið mesta veselmenni, heimskur og duglaus, og ó-máttugur þess að stýra Spánverjum, hraustri þjóð og drenglyndri. Konúngur átti þann son er Ferdínand hét. Hvorugur þeirra feðga réði þá miklu þegar hér var komið; en völdin voru öll í höndum dróttníngar og ráðgjafa konúngs, þess er Goði (Godoy) hét; hann var og kallaður friðarhöfðíngi (Fredsfyrste). Litlu fyrir en síðustu aldamót höfðu Spánverjar bundið félag við Frakka, og þóttust hafa beðið ógagn af. Eign-aði þjóðin það mest hrekkjum og ódugnaði Goða ráð-gjafa, og var það mála sannast. Ferdínand konúngs-

sem var hinn mesti óvinur rádgjafans, og fyrir
hafdi þjódin mikid traust á honum. Konúngur
rádgjafinn létust vera miklir vinir Frakka, en ad t
ótta sú hafi verid á völtum fæti, má ráda af því,
þá er ófridurinn vakrist milli Napóleons og Prú
(1806) reis Godi upp, og eggjadi Spánverja til s
skapar og lidsafnadar móti Frökkum. Þetta frá
Napóleon keisari á vígvellinum hjá Jena. Kém
honum þá til hugar ad Godi skuli til nokkurs h
vakid ófrid á Spáni, og nú skuli hann reka Karl k
úng og ættmenn hans frá völdum. En kænlega v
ad því ad fara. Var keisara þad nokkur huggun,
sundurþykki og flokkadrættir voru vid hird Spánar k
úngs. Þegar Napóleon hafdi sigrast á Prússum
vard Fridarhöfdinginn hræddur í meira lagi,
vildi fridmælast vid keisara, og kvadst einúngis ha
kallad menn til vopna á Spáni, af ótta fyrir Portú
gals mönnum og Marokkum. En keisari mælti
til, ad Spánar konúngur léti sig fá til umráda 1600
vopnadra manna, til ad auka med herlid sitt nordan
Þýzkalandi. Vard konúngur vel vid bæn hans, o
sendi hershöfdingja sinn einn, er Rómana hét, me
einvala lidi til Napóleons. Nálægt veturnóttum 1807
gjördi Napóleon keisari leidángur á hendur Portúgals
mönnum, og gaf þeim ad sök, ad þeir væru sér ekki al
trúir en hefdu mikil mök vid Enskamenn. Lagdi Junot
hershöfdingi allt Portúgalsríki undir sig, en konúngu
flýdi, og hirdsveit hans öll, til Brasilíu. Á Spáni
fór sundurþykki vaxandi milli Karls konúngs og Ferdin

ands sonar hans. Tók Ferdínand á laun ad semja vid Napóleon, en Godi komst ad því, og var þá koníngs son høndum tekinn. Vard hann ad bidja fødur sinn fyrirgéfníngar, og komust þannig sættir á med þeim fedgum.

Öndverdlega á ári 1808 héldu Frakkar her sín um inná Spán, var Murat mágur Napóleons yfirhershøfdíngi þeirra. Vid þad vaknadi þjódin og sá ad Godi hafi dregid sig á tálar. En Godi rédi koníngi til ad flýa á burt; en er þjódin vard þessa vís, laust upp ófridinum, var Godi høndum tekinn, og meiddur og settur í myrkvastofu. En koníngur vard svo hræddur, ad hann lagdi nidur vøldin, þótt hann vildi ekki kannast vid þad, þegar frá leid. Settist Ferdínand koníngsson í hásæti fødur síns, og tók þjódin vid honum tveim høndum. En litlu sídar halda Frakkar lidi sínu til Madrídar, og vildi Murat ekki kannast vid koníngdóm Ferdínands. Tekur Ferdínand þad ráð, ad hann leitar á fund Napóleons, og kýs heldur ad eiga allt undir miskun hans, enn drengskap og fylgd þjódar sinnar. En sem hann kemur á fund keisarans, er honum sagt ad hann verdi ad sleppa øllu tilkalli til ríkis á Spáni, fyrir því ad keisarinn ætli þad ødrum. Stefnir nú Napóleon til sín Karli koníngi, ættmønnum hans øllum, og Goda rádgjafa, og lýkur svo med þeim, ad þeir Karl og frændur hans affala sér øllu tilkalli til ríkis á Spáni. Setur nú Napóleon keisari, Jósef Neapels koníng bródur sinn, til ríkis á Spáni, en Murat í stad Jósefs yfir Neapelsríki. En þó Karl koníngur

nan mikid lid bædi af Fracklandi, Þýzkalandi og
talíu, og býst nú sjálfur til ferdar vestur á Spán; en
ur hann færi þá fór, hittir hann Alexander Rússa-
isara í Erfurt (27 Sept — 14 Oct.), og bundu þeir
í enn fastar med sér sætt þá, er þeir höfdu gjört
illi sín í Tilsit. Sídan ritudu þeir bádir Engla kon-
ngi og budu hanum sættir, og mæltust til vináttu, en
ikt var ekki ad nefna. Þessu næst heldur Napóleon
ned 200 þúsundir manns vestur á Spán; verda þar
jót umskipti, og á einum mánudi hefir hann lagt allt
andid undir sig, og tekid Madrid. Flýdu Bretar
undan til skipa, og mistu ádur fjölda manna, og hers-
höfdingja sinn Jón Mór (Moore). Tók nú Jósef
aptur vid ríkisstjórn á Spáni. En Napóleon hélt
heim til Fracklands, (í Janúar 1809), því hann hafdi
spurt ad Austurríkis menn hefdu lidsafnad mikinn og
vidbúnad. Og setur eptir á Spáni nokkra af hershöfd-
ingjum sínum til ad halda áfram ófridi vid Spánverja.
Veitti þeim ýmsum betur. Bretar sendu ad nýu Wellesley
þángad med miklu lidi, og vann hann sigur á Frakk-
um hjá Talavera-borg (28 Júl. 1809), og fekk þá
vidurnefnid Wellington. Þó vard Bretum einn lítid
ágeingt eptir þenna sigur, því Napóleon sendi þegar um
veturnætur (þá er hann hafdi sigrast á Austurríkis
mönnum, og samid frid vid þá) herlid vestur á Spán.
Geingu þeir þá fast fram hershöfdingjar hans: Mas-
sen og Soult, og hrucku enskir menn undan.
Árid 1810, og 1811 báru Frakkar hærra hlut á
Spáni. Fekk þá einn af hershöfdingjum Napóleons,

er Suchet hét, mikinn ordstýr, gaf Napóleon h
um hertoga nafn (Albúfera) fyrir sakir hreysti
framgaungu. En þó Frakkar ynnu margan frægan
ur, létu Spánverjar ekki hugfallast, heldur rédu þeir
Frakka, og áttu vid þá margar orrustur og smáar,
veitti stundum betur. Þegar ófridurinn hófst milli
Rússa og Frakka (1812), rann upp nýr vonarde
ur fyrir Spánverjum. Því bædi var þad, ad keis
inn bodadi til sín nordur, ýmsa herflokka af Spá
en sendi ekki þángad lid í þeirra stad, svo var
Wellington jafnan vidbúinn, er hann sá sér færi
ad gjøra Frøkkum árásir þar í landi; en þad sem
mest og best efldi Spánverja til øruggrar mótvarn
var, ad nýtt skipulag komst á þjódmálefni þeirra. En
því var svo háttad: Hid ædsta landstjórnar félag
Spáni, hafdi komid því á, ad fulltrúaþing (Cortes)
yrdu sett í landinu, til ad ransaka þjódmálefni, og
semja nýja stjórnarskrá, er nokkud skyldi takmarka kon
úngsvaldid. Samþykktist þjódin stjórnarskrá þessa
ari, og hét ad fylgja henni, (18da og 20sta
Marts 1812). Sást þad skjótt hvørsu vel hún átti
vid, og hvørsu krøftuglega freisid leiddi þjódina
til framkvæmda. Enda tóku og adrar þjódir þessa
stjórnarbót gylda. Þessu næst vann Wellington
mikinn sigur á Marmont hershøfdingja Napóleons,
hjá Salamanka, vard þá Jósef konúngur enn ad nýu,
ad leita burt úr Madrid. Þó tókst Soult, kappanum
um, ad rétta vid aptur ad nokkru, hluta Frakka, og
settist þá Jósef aptur ad voldum. En skømmu seinna

-odadi keisarinn, Soult á sinn fund med 50,000 manns, en Jourdan herhöfdíngi kom í hans stad. Stódst þá ekkert vid Bretum úr því, og Wellington vann nafnfrægan sigur, hjá Wittoria, á Frökkum (21ta Jún. 1813), urdu þá Frakkar ad flýa undan nordur yfir Pýrenæafjöll. Var þá útgjört um ríkisstjórn Jósefs á Spáni, og sá hann aldrei sídan þad land.

Nú er ad segja frá Napóleoni keisara, ad hann bjó ferd sína af Spáni, nálægt midjum vetri 1809, þá er hann spurdi lidsafnad Austurríkis manna, og héldur nú sem hvatlegast til Parísarborgar, og safnar lidi. En þegar um vorid, fyrir sumarmál, heldur Karl erkihertogi, lidi þeirra Austurríkis manna vestur á Bæaraland, og hefir allt ad 200 þúsundum vígra karla. Jóhann, bródir Karls, stefnir, í ödru lagi, lidi sínu til Tyrólalands, og hefir 80 þúsundir; en Ferdínand, þridji bródirinn, heldur med 36 þúsundir til Pólínalands. Er svo sagt, ad þá hafi vopnast í Austurríki alls 400 þúsundir manna. En hér fór sem fyrr, ad Napóleon reyndist hyggnari og hamíngjumeiri enn óvinir hans. Hann rédist á Karl erkihertoga, átti vid hann 5 orrustur, hvörn daginn eptir annan (19da til 23ja April), einkum hjá Ekkimúla (Ekkmühl) og Regensborg, og fékk sigur í öllum, hélt þá Karl undan austur á Væheimaland, en Napóleon hélt til Vínarborgar, og gafst stadurinn upp fyrir honum (13. Maii). Jóhanni erkihertoga vard í fyrstu nokkud ágeingt á nyrdra-Vallandi, móti Evgeni, stjúpsyni Napóleons, en sídan veitti Evgeni betur og rak hertogann af hönd-

ána, sjer hann þá, ad hann mun ekki sigrast, í það sinni, á Austurríkis mönnum, en býdur Lannesi og fleirum af hershöfdingjum sínum ad verja orrustuvöllinn, og láta síga undan yfrá ey þá, er næst liggur austast bakkanum, og Lóbá heitir. Var þá barist ákaflega, og létu hvorirtveggju mikid lid; í þeirri svipan kom fallbyssukúla á Lannes, og tók af honum bádar fætur fyrir ofan kné. Lét Lannes bera sig þángad sem Napóleon var, og sem keisarinn sá ad hann var særdur til ólífis, fékk hann ekki tára bundist, enda var þar eptir manni ad sjá. Lannés lifdi 10 daga vid mikil harmakvöl, og dó sídan. Fleiri féllu í orustu þessari, hershöfdingjar af Napóleons keisara, þótt ekki séu þeir nefndir hér. Eptir þetta lét keisarinn fyrirberast á Lóbá-eyu, og gjöra aptur brú á ána. Þóktust hvorirtveggju, bædi Frakkar og Austurríkis menn, hafa unnid sigur. En sem Napóleon hefir dregid ad sér allt lid sitt, og Evgen komid til móts vid hann, heldur hann öllu lidinu austur yfir Dóná, og ber nú lítid til vidinda, til þess er hann hittir Karl erkihertoga hjá Wagrams-þorpi. Tókst þar en hardasta orusta, og stód 2 daga (5ta og 6ta Júlí). Þar fékk Napóleon sigur, en margir féllu af hvorumtveggju. Um haustid, þetta hid sama ár, komst fridur á (14da Okt.) í Vínarborg. Lét Franz keisari þá mikid land laust vid Napóleon, og samþykkti allar adgjördir hans á Ítalíu, Portúgal og Spáni.

Eptir ad þessi fridur var saminn, gjördist Napóleons ríkari og vídlendari enn nokkru sinni ád-

ur. Þó var það eitt er honum þókti vanta, …
var: að hann átti ekki lífs afkvæmi, er tekið
ríkið í arf eptir hann. Fyrir þá sök sagði …
skilið við Jósefínu drottníngu sína, og fékk …
Maríu Lóvísu, elztu dóttur Franz keisara; fór …
kaup þeirra fram í Parísarborg (1. og 2. Apríl 18…
Ari síðar (20 Marts 1811) ól María Lovísa s…
barn, var það vatni ausið, og kallað: Napól…
Franz Karl Jósef. Hann var þegar í vöggu kall…
konúngur Rómaborgar. Nú héldu menn að fri…
og samlyndi mundi haldast milli Napóleons, og ann…
stórhöfdíngja í Norðurálfu, en sú von brást. Me…
ófriður sá stóð, er nú var gérið millum Frakka og A…
urríkis manna, hafði Napóleon svipt Páfann, öll…
veraldlegum yfirráðum, og þó páfinn lýsti banni y…
keisara og öllum hans erindsrekum. fór Napóleon s…
fram, og lætur taka páfann höndum og flytja …
Savóna-borgar á Frakklandi, og sat hann þar 3 …
Arið 1810 kollvarpaði Napóleon stjórn ýmsra s…
fylkja bæði á Pýzkalandi og Italíu, og um þær mund…
jók hann Hollandi við ríki sitt, en Lodvík, konúng…
bróðir hans, lagði niður konúngdóminn, fór af lan…
burt, og lét fyrirberast í Austurríki. Hið frakkneskt…
einvaldsdæmi taldi nú 130 fylki (Departement), …
42 milliónir manna.

Þessu næst bar það helzt til tíðinda, að ófrið…
vakrist millum Rússa og Frakka. Rússum st…
jafnan ótti af yfirgángi Napóleons, og þó Alexand…
keisari þæktist vera mikill vin Napóleons og hefði l…

ið honum, að láta af allri kaupverzlun við enska menn, þá áttu Rússar eins eptir sem áður kaupskap við þá, enda gátu þeir valla hjá því komist. Öndverðlega á ári 1811, tók Alexander að safna liði um ríki sitt; semur frið við Tyrki, og gjörir samband við Breta og Svía, og ena spánversku þjóðfulltrúa (Cortes). En hinsvegar dregur Napóleon keisari saman óvigan her, bæði af Frakklandi og Italíu, og frá bandamönnum sínum, Prússum, Austurríkis-mönnum og Pólskum, og stefnir því liði að heiman á öndverðu sumri 1812. Er svo sagt að þar hafi komið saman 500 þúsundir manns. Þessu liði heldur hann austur á Rússland. Rússar höfðu lið nokkru minna, og fyrir því tóku þeir það ráð, að hætta ekki til höfuðbardaga við Frakka, heldur láta síga undan inná eyðimerkur og ófærur, eyða bygð allri og vistum, mæða Frakka í mörgum orrustum og smám, og bíða svo þess að veturinn kæmi, og geingi í lið með sér. Héldi nú Frakkar áfram, eins eptir sem áður, þóktust Rússar eiga sigurinn vissan. Hvorttveggja varð. Napóleon hélt áfram, en Rússar hörfuðu undan, brendu borgir og vistir, og gáfu Frökkum aldrei færi á að eiga við sig stórorrustur. Sjöunda dag Sept. átti Napóleon við þá mannskæða orrustu, við á þá, er Moskwa heitir, og viku síðar heldur hann inní Moskó, ena miklu og fornu höfuðborg Rússaveldis. En keisara hnikkti heldur enn ekki við, er hann sá hvörsu allt var þar kyrrt og þögult. Varð hann þess skjótt vísari, að Rússar höfðu haldið á burt úr borginni með mestan fjárhlut sinn, en höfuðsmiðs

undir mikid lid, og stefndi til móts vid óvini sína. Átti hann vid Rússa her og Prússa snarpa orrustu hjá Lützen (2an dag Maí-mán.) og fekk sigur. Litlu sídar átti hann tvær orrustur vid bandamenn (hjá Bauzen og Wurschen) og fór á sömu leid. Var þá vopnahlé samid, og stód þad 10 vikur, töludu menn þá um sættir, en vard þó eigi áfomid. Hófst ófridur ad nýu. Gengu þá Austurríkis menn og Svíar í lid med fjandmönnum Napóleons. Höfdu bandamenn 800 þúsundir vopnadra manna. Nádi sá her nordan frá Eystrasalti og sudur á Ítalíu *). Napóleon hafdi ad öllu samtöldu allt ad 500 þúsundum manna.

Um þessar mundir brauzt sambandsherinn sunnan af Böheimi nordur á Saxland, og bjóst ad taka Drásdenar-borg. Þar kom Napóleon til móts vid hann. Vard þar orrusta hörd, og stód 2 daga (26 og 27 Aug.). Fekk Napóleon sigur, en bandamenn flýdu sudur á Böheimaland. Í þeirri orrustu fell hinn frægi hershöfdingi Moreau. Hann hafdi dvalizt um hríd í Vesturálfu, en Alexander Rússakeisari baud honum á sinn fund, og hafdi hann í rádum med sér. Átti Moreau eigi í alllitlu strídi vid sjálfan sig, ádur hann gæti gengid í lid med óvinum lands síns.

En þótt Napóleon fengi sigur í orrustu þessari, bidu hershöfdingjar hans á ödrum stödum ósigur fyrir

*) Þad má ei þannveg skilja, ad madur hafi stadid vid mann í fylkingu á allan þann veg, heldur svo, ad fylkingum bandamanna hafi verid skipad í þeirri stefnu, og þá vída verid lángt bil á milli þeirra.

Blücker herhöfdingja og Karli Jóhanni, kon efni Svía, og fyrir því gat hann ekki spornad því, ad enir smærri herflokkar bandamanna sameim megin hernum á Bæheimi. Þokadist nú allur sá mikli her nær Napóleoni, og loksins hittist hvorutv herinn á Breidumørk hjá Leipzig. Þar stód nafnfræga orrusta frá 16—19 Octób: mán. 1813 Þar bar Napóleon keisari lægra hlut, þótt hann ø øllum herhøfdíngjum meiri ad hugviti og dirf Var þad bædi, ad hann hafdi lid miklu minna óvinir hans, enda gengu og Saxlendíngar og Wurt bergsmenn undan merkjum hans, þegar orrustan sem hædst, og í lid med bandamønnum. Vard ógurlegt mannfall af hvorutveggjum, en þó meira Frøkkum. Lagdi þá Napóleon á flótta undan til Fra lands. En er hann lagdi upp frá Leipzig, setti ha Poniatovsky og Makdonald og 2 adra af herhøf ingjum sínum, med sveit manna, skyldu þeir geyma þe ad óvina herinn gæti ekki bannad Frøkkum leid yf brú þá á Elsterfljóti, er þeir urdu yfir ad fara. Ba svo rád fyrir gjørt, ad þá skyldi brjóta brúna af ónn er allur her Napóleons væri yfirum genginn. En s bar til ógæfusamlega, ad sá madur er þad verk átti a vinna, vard fyrri til ad eyda brúnni, enn þei Poniatóvsky kæmust ad ánni. Var þá Napóleon m megin herinn kominn vestur yfir, en hinir sátu eptir

---

*) Þann 18 Oct. gengu Saxlendingar og Wurtemb: menn lid med óvinum Napóleons, og sá hann þá hvør endir mund á verda orrustunni.

yrir austan med einar 12 þúsundir manna. Sóktu rlí andamenn ad þeim sem fastast, og høfdu óslýanda her. lrdu Frakkar þar ofurlidi bornir, sem vid var ad búast, og annadhvort høggnir nidur edur handteknir. Fórust og margir á sundi, þeir er hlaupid høfdu í fljótid og viljad leggjast yfir. Pad sáu menn seinast til Poniatóvskys, ad hann keyrdi hestinn sporum og hleypti úti fljótid, og hvarf þar. En Makdónald syndti yfir.

Napóleon hélt lidi því, er þá var eptir med honum, vestur ad Riná, en ádur hann nædi þángad, rédst í móti honum hershøfdingi sá, er Wrede hét, med 60.000 manns af Bæaralandi og Austurríki. Vard fundur þeirra þar sem heitir ad Haná. Napóleon tók svo á móti, ad 10 þúsundir féllu af Þjódverjum, en hinir flýdu vídsvegar er af komust. Eptir þad hélt hann leidar sinnar vestur yfir Riná, og steig ekki fæti sídan á Pýzkaland.

Odar enn Napóleon var kominn heim á Frakkland, risu upp þær enar Pýzku þjódir er hann hafdi haldid í ánaud. Aldinborgar, Hessa og Brúnsvíkur høfdingjar settust aptur ad vøldum. Engla og Prússa konúngur køstudu aptur eign sinni á lønd þau, er Napóleon hafdi unnid undan þeim. Nidurlendíngar hófu og uppreist, og tók Vilhjálmur frá Oraníu, landstjóri þeirra, þar aptur vid yfirrádum. Austurríkis menn héldu her sínum sudrá Italíu, en þar var Evgen, konúngsefnid, fyrir, og tók svo hreystilega á móti, ad þeir fengu litlu áorkad. Pá bar þad til tídinda (í Jan. mán. 1814,) ad Murat Neapels

féndingur, sleit félagskap við Napóleon, mág sinn og velgjörðamann, en gékk í lið með Austurríkis mönnum. Ætti Evgen þá að verjast á tvær hendur, og tókst honum það svo vel, að kalla mátti hann héldi mest öllu landinu, þegar stjórnarbreytíngin gjörðist á Frakklandi, og Napóleon varð að leggja niður völdin.

Þannig breyttust viðburðirnir á einu ári. Þjóðirnar streymdu nú að úr öllum áttum, til að hefna sín á Napóleoni, er þær litlu áður höfðu lotið af mikilli auðmýkt. Höfðu menn aldrei séð jafnmikinn mannafjölda samankominn, síðan krossferðir lögðust niður.

Undir árslokin 1813 fóru menn milli Napóleons og fjandmanna hans og báru sáttar orð, skyldi Frakkland halda þeim landamerkjum er náttúran hafði sett því; eru það: Pyreneafjöll, Mundiafjöll og Rín. Lét Napóleon sér það ekki, en Bretar tóku því fjarri. Bjóst þá Napóleon til varnar sem best hann kunni. En óvina herinn hélt inn yfir landamerki Frakklands á ýmsum stöðum. Sendi Napóleon herhöfðingja sína í ýmsar áttir móti þeim, en sjálfur hélt hann (í Jan. mán. 1814) norður í land til móts við Rússa, Austurríkis menn, Prússa og Þjóðverja, og þótt hann hefði lið miklu minna, fékk hann sigur í hverri orustu sem hann sjálfur var viðstaddur; stóð óvinum hans svo mikill ótti af honum að þeir þorðu varla á hann að ráða, hefði hann að líkindum sigrast á þeim, ef herhöfðingjar hans hefðu ekki á öðrum stöðum farið halloka fyrir bandamönnum, og sumir þeirra brugðist honum þegar mest lág á. Ætti nú megin her óvin-

nns einúngis fárra daga leid til Parísarborgar. Þá ekur Napóleon það fángaráds, að hann heldur norð- r fyrir þá, og ætlar svo að koma að baki þeim, og erjast við þá í löndum þeim er liggja millum Rínar g Móselár. Var það að vísu hið djarfasta tiltæki g hefdi ordið bandamönnum að falli; en við það fálu eir, og fyrir því héldu þeir allir lidi sínu viðstöðu- aust til Parísarborgar. Napóleon hafdi sett Jósef ródur sinn til höfudsmanns í borginni. En er hinn riendi her kom að borgarhliðunum, varð það bert að borgarmenn voru ekki allir einshugar. Vildi þjóðvörd- arinn (Nationalgarden) verja borgina meðan nokkur stæði uppi, og margir voru þeir er þannveg hugðu, en stórmenni flest og höfdingjar létu þá annaðhvört hugi fallast, eður snerust undan skyldu við keisarann, sinn lánar- drottinn. Þrítugasta dag Marts mánadar (1814), áttu borgarmenn harða orrustu við sambands herinn, og biðu ósigur. Héldu þá Rússakeisari og Prússa- konúngur daginn eptir sigri hrósandi inní borgina. Settust þeir þegar að rádstefnu. Hélt Talleyrand svörum uppi af Frakka hálfu. Hann var madur stór- vitur; en margt má segja um það, hvörku hollur hann reyndist Napóleoni keisara. Þar urdu málalyktir á ráð- stefnu þessari, og mest fyrir áeggjan Talleyrands: að Napóleon skyldi leggja niður völdin, og eiga aldrei síðan tilkall til, né heldur ættmenn hans. En Lodvík (hinn 18di) af Bourbonna ætt, og bródir Lodvíks 16da skyldi setjast að völdum á Fraklandi. María

drottníng Napóleons, hélt með syni sínum, til Au
ríkis á fund føður síns Franz keisara.

En það er frá Napóleoni keisara að segja,
þá er honum kemur sú fregn, að bandamenn haldi
liðinu til høfuðborgarinnar, bregður hann við skjótt
veitir þeim eptirfør. Gjørir borgarmønnum þau
að hann komi sjálfur til liðs við þá, og biður
verjast vel og drengilega þángað til. Að kvøldi ens
Marts, var hann kominn í grend við borgina.
fréttir hann, að borgarmenn hafa barist um daginn,
ið lægra hlut fyrir bandamønnum, en gefið borgin
þeirra vald. Sjer hann þá í hvørt efni komið
og tekur loks það ráð að samþykkjast vilja og g
bandamanna, og affala sér og ættmønnum sínum
tilkalli til ríkisstjórnar á Frakklandi. Því næst
mønnum ásamt um að láta hann fá ey þá til
ráða er Elba heitir. Það er lítil ey, og liggur fr
undan Toskanaríki á Italíu. Skyldi hann ha
keisara nafni, hafa hirðmenn nokkra um sig, og
allmikið fé af ríkissjóði Frakka, til uppeldis sér
mønnum sínum. Seint í Apríl hélt hann til ey
innar. Gjørðu óvinir hans honum það til skapraun
að þeir leyfðu hvørki drottníngu hans né syni að ko
á fund hans áður hann fór úr landi. Þessu næst v
saminn friður í Parísarborg (30ta Mai 1814). Lé
þá Frakkar af hendi allt það, er þeir høfðu unn
undan øðrum þjóðum síðan 1792, nema lítið eitt
Savoyasveit, nokkur hérøð í Belgíu og við Rín
og greifa dæmið Avignon og Venaissin. Frakklan

Kyldi heita konúngsríki eins og fyrr. Sveifsaland, Holland, og þau lönd á Italíu er Austurríkis menn ekki fengu, urdu ríki fyrir sig. Hin mörgu smáríki á Pýzkalandi, gjördust sambandsríki. Pá var og rádgjört, ad höfdíngjar allir, þeir er átt höfdu í ófridi vid Napóleon keisara, skyldu fund eiga í Vínarborg, á því ári, til ad ræda um, og jafna med sér öll höfud mál efni Nordurálfu = byggja.

Ekki leid lángt um, ádur fridnum væri lokid. Var þad bædi, ad stjórn Lodvíks konúngs ens 18da vard brádum mjög óvinsæl allri alþýdu á Fracklandi, og hinsvegar hófust deilur miklar med höfdíngjum á fundinum í Vínarborg. Vissi Napóleon þetta hvort-tveggja. Og þá er minnst vardi, var hann kominn aptur til Fracklands (1ta Marts 1815). Flykktist þá landsfólkid til móts vid hann, og mátti kalla ad hann væri borinn á höndum til Parísarborgar. En er þetta spyr Lodvík konúngur, flýr hann sem skjótast nordur á Belgíalönd. Voru þá settar til höfuds Napóleoni 2 millíónir fránka *); en enginn madur var sá á Frackландi er legdi hendur á hinn mikla hershöfdíngja; gekk allt landsfólkid þegar til hlýdni vid hann, og urdu hvörki mannavíg né baráttur.

Nú spyrjast þau tídindi til Vínarborgar, ad Napóleon er kominn til ríkis, en Lodvík konúngur stokkinn úr landi. Bregdur þeim þá heldur enn ekki í brún höfdíngjunum, og lýsa því yfir, ad Napóleon

---

*) 1 fránki er svo til ad jafna, sem 30 skildingar danskir.

skal hvergi grid hafa, og falla óheilagur fyrir hverjum manni. Stefna þeir nú lidi saman um alla nordurálfu, og segja menn ad þá hafi verit 1 millión og 365 þúsundir manns móti Napóleoni. En þad er frá honum ad segja, ad hann stefnir þegar til móts vid Breta og Prússa; höfdu þeir lid hálfu meira enn hann, og bjuggust fyrir sunnan á Belgíalandi. Wellington og Blukker stýrdu því lidi. Napóleon rédist fyrst á Prússa og vann á þeim mikinn sigur hjá Ligny (16. Júni). Í þeirri orrustu var hestur skotinn undir Blukker, og féll hann til jardar og ridu Frakkar á hann ofan, en þekktu hann ekki, og fyrir þad komst hann undan. Því næst heldur Napóleon til móts vid Wellington. Vard fundur þeirra þar sem heitir ad Waterló. Þar stód hin nafnfræga orrusta (18da Jún. 1815), bördust hvorirtveggju, Frakkar og Bretar, af enni mestu grimmd, en er bardagann tók ad halla á Breta, kom Blukker ad, med Prússa her, og rédist þegar á Frakka. Setti þó Napóleon herhöfdingja hans er Grouchy hét, til ad hafa gætur á Prússum, en þeir komust fram hjá honum svo hann vissi ekki. Brast nú flótti í lid Napóleons keisara, og fékk hann ekki rétt vid bardagann. Vard hann þá ad flýja til Parísarborgar, og leggja nidur völdin ad nýju. Vildi hann ad sonur sinn erfdi ríkid eptir sig, en því neitudu menn. Hélt hinn útlendi her vidstödulaust til Parísar og gáfust borgarmenn upp fyrir þeim. Þá bjóst Napóleon ad fara til Vesturálfu, en enskir menn höfdu njósn af um ferd hans, og [illegible] af

landi burt, fyrir herskipum þeirra, er þar lágu fyrir landi. Tók hann þá þad ráð, ad gánga á vald Breta, og ætladi helzt ad taka sèr bólfestu á Englandi, en hin enska stjórn leyfdi hönum ekki ad stíga þar fæti á land, en lèt færa hann í útlegd í ey þá, er Elínarey (St. Helena) heitir. Hún er 320 vikur sjáfar í hafi, undan Svarthöfda á Afríkuströndum. Sat Napó-león þar í strángu vardhaldi, og 4 af vinum hans, er Bretar leyfdu ad vera hjá hönum í útlegdinni (Bertrand, Montholon, Gourgaud, Las Cases). Hafdi hann sèr helzt til dægrastyttíngar, ad rita þad er á daga hans hafdi drifid. En er hann hafdi dvalist nokkra vetur í eyunni, tók heilsa hans mjög ad spillast; eignudu menn þad átumeini í innyflum, magnadist þá sjúkleikur ödum, og dró hann til dauda. Hann andad-ist 4 dag Maí mán. 1821. Þá hafdi hann lifad 2 vetur og 50. Var útför hans gjörd (þar á eynni) med hinni mestu vegsemd. En sídan er lík hans flutt til Fraklands (1840) og hvílir þad nú í Parísarborg, eins og hann hafdi sjálfur fyrir sagt litlu fyrir andlát sitt.

Þannig lauk æfi þessa merkis manns, er verid hefir einn hinn vitrasti medal mannkynsins, og svo framkvæmdar mikill ad hann breytti ástandi og kjörum því nær allra þjóda í Nordurálfunni, en ordstír hans er floginn svo lángt sem lönd eru bygd.

## Frá frelsisstrídi Grikkja. (1821—1829).

Ár 1453 unnu Tyrkir Miklagard, og brutu undir sig Grikkland, sem kunnugt er ordid. Héldu þeir síd-

an landsfólkinu í þúngri ánaud, því nær um 4 aldir.
Mátti þad svída Grikkjum því sárar, sem þeir höfdu
erft marga af mannkostum forfedra sinna, bædi hugvit,
frelsis anda og hreysti, en hvíklyndir voru þeir og met-
ordagjarnir og tortryggir sem forfedur þeirra, enir víd-
frægu Forn-Grikkir. Hinsvegar voru Tyrkir fáten-
ir í mörgu, en héldu fast vid forna villu fedra sinna,
og þóttust upp úr því vaxnir ad nema sidu annari
þjóda, enn þótt betri væru. Voru valla tvær þjódir
hvor annari ólíkari enn Tyrkir og Grikkir. Má af
slíku ráda, ad Grikkir hafi ekki sem best unad hag sín-
um, og borid harm sinn í hljódi, allt til þess tíma er
höfundi þjódanna þókti mál komid, ad þeir tæku til
starfa, og brytu af sér þrældóms ok Tyrkja.

Ár 1814 stofnudu nokkrir menn grískir félag þad,
er þeir kölludu Vinafélag (Hetæria). Midadi þad í
öndverdu einúngis til ad efla vísindi, medal Grikkja,
en sídan létu félagsbrædur sér einkum annt um ad snúa
hugarfari landa sinna til stjórnar málefna Grikklands.
Sást og vottur þess, þá er ófridurinn hófst, hversu
vel þeim hafdi ordid ágengt.

Alexander Ypsilanti er madur nefndur, hann var
grískur ad ætt, en hafdi verid hershöfdíngi í lidi Rússa
keisara; hann gjördist oddviti ad því, ad Grikkir höfu
uppreist móti Tyrkjum í Moldáar fylki. Þad er
nordast á Tyrkjalöndum. Þetta vard tídinda öndverd-
lega á árinu 1821. Skoradi Ypsilanti á Grikki, ad
þeir skyldu varpa af sér ánaudar oki Tyrkja, og kvad
Rússa mundu verda því medmælta. En sem Alex-

andér Rússakeisara; kemur sú fregn, brást hann reidur vid, rekur Ypsilanta úr tølu hermanna sinna, en gjørir Soldáni þau ord, ad hann megi óhultur treysta á vináttu sína, og engan hlut vilji hann ega ad máli Grikkja. Nú sem Soldán frértir ad Grikkir hafa hlaupid upp til ófridar vid sig, verdur hann ákaflega reidur, og hyggst ad brjóta uppreistarmenn til hlýdni vid sig þegar í stad. Sendir nú her manns í móti þeim, og fara Tyrkir fram med skélfilegri grimmd, og drepa hvørt mannsbarn af Grikkjum er þeir ná. Atti Ypsilanti orrustur vid Tyrki, og lauk svo, ad hann beid ósigur; féllu nálega allir menn hans, en sjálfur komst hann undan á flótta til Austurríkis; þar var honum svo tekid ad hann var settur í vardhald. Ar 1828 var honum gefid frelsi, og á því ári andadist hann. En þótt Tyrkjum tækist ad kúga uppreistarmenn í Moldáar fylki og Vallakkíu, hófst um sømu mundir ófridur mikill á Pelopsey (Peloponnesos, Mórea), og á eyunum í Grikklandshafi, og þann ófrid fengu Tyrkir ekki sefad. Fyrst tóku þeir þad rád, ad ná med brøgdum øllum høfdingjum Grikkja á Pelopsey á sitt vald, og annadhvørt drepa þá, edur halda í fjøtrum, og fyrir því stefndu þeir þeim til fundar í Tripóliza, høfudborg þar í landi. Voru þeir og margir er þann veg létu leida sig, en Germanos erkibiskup, sá vid Tyrkjum, og fer hann ekki til fundarins, heldur stefnir ad sér lidi og hefur uppreistina. Komu þá til lids vid hann høfdingjar 2, Kolokotróni og Máromikkalí, med sveit manna. Lýstu þeir því yfir: ad

Grikkir höfdu hugfest ad brjóta af sèr ok Tyrkja, og hefja ad nýu Grikkjaveldi hid forna, og beiddu þá kristna menn í Nordurálfu ad senda sèr vopn og fè, og leggja sèr gód ráð. Tóku menn all misjafnlega undir þad. Þjódirnar glöddust í hjarta og bádu frels-ishetjunum alls góds til handa, en höfdingjar þjód-anna, þeir er halda vildu öllum í ánauð, sögðu á reidi sína, kölludu Grikki upphlaupsmenn og spillvirkja og ýms-um íllum nöfnum. Og ekki var sendimönnum Grikkja leyft ad bera upp erindi sín á fundinum í Verona. En á þeim fundi sátu ríkustu þjódhöfdingjar Nordur-álfunnar. Við árslokin (1821) höfdu Grikkir unnid undir sig nálega allar borgir á Pelopsey, drepid Tyrk-ium hrakid úr landi. Kusu þeir þá sjálfir stjórnend-ur sína. Höfdu þeir menn adsetur sitt fyrst í Argos, því næst í Korintuborg og sídan í Náplia-borg (Napoli di Romania). Um þær mundir sem Grikkir hófu ófrid á landi uppi, hlupu eyamenn til vopna á Grikklands eyum (einkum á Hydra-ey, Spezzia, Ypsara, Tine og Samos-ey). Eyamenn voru kaup-menn miklir og skipasmidir, og áttu aud fjár. Kaup-skip þeirra voru svo gjörd ad hafa mátti í orrustur í vidlögum. Ádur enn menn vardi höfdu eyamenn vopn-ad 180 skipa, voru þau á margir vaskir menn og fengu Tyrkir ad kenna á hreysti þeirra og hardfengi; eyddu þeir mörg skip fyrir Tyrkjum, en tóku vistir þeirra og fè. Ári fyrr enn Grikkir hófu frelsisstrídid, ófridadist med þeim Ali jarli í Janínaborg og Soldáni. Kom þad Grikkjum mjög í gódar þarfir, því Soldán vard

ad skjótast vid Ala; stód sá ófridur 2 ár til þess er Ali jarl var af dögum ráðinn. Snérust þá Tyrkir vid Grikkjum med miklu ofurefli, og sóktu ad þeim bædi á sjó og landi. Sendi Soldán ædsta herskipa foríngja sinn, þann er Kapúdan-Paska kallast á tyrknesku, med flota mikinn til Pélopseyar. Setti hann þar á land herlid mikid, en hélt skipum sínum til Kíeyar (Chíós), gekk þar á land og gjørdi hid mesta hervirki. Ætladi sídan ad herja um fleiri eyar Grikkja, en honum audnadist þad ekki. Madur hét Stefán Kanaris, hann var fæddur þar á eyunum. Hann var hinn mesti kappi. Hann fór á brennuskútum þremur þar ad, sem floti Tyrkja lág fyrir akkerum á Kíeyar-sundi, lagdi ad foríngja skipinu, og kveikti í. Flaug skipid í lopt upp, og fórust þar á 2800 manns af Tyrkjum. Kapudan Paska vard sár til ólífis og dó litlu sídar. Brenndu Grikkir þar fleiri skip fyrir Tyrkjum. Í þad mund var ófridurinn sem mestur á landi. Héldu Tyrkir her sínum nordan ad Laugaskardi (Thermopylæ). Þar kom til móts vid þá kappi sá, er Odysseifur hét, átti hann vid þá orrustu harda, og komust Tyrkir ekki yfir skardid. Margir voru þá uppi adrir menn á Grikklandi, er vørdu fjør og frelsi þjódar sinnar og nádu mikilli frægd. Má hér til þess nefna: Demetríus Ypsilantí, Nikítas, Márakordató og Markús Bozzarí. Þeir tveir, enir sídastnefndu, vørdu Mesólongi-borg af mikilli hreysti. Flaug ordstír þeirra um alla Nordurálfu, og gjørdust þá margir til ad lidsinna Grikkjum, og sendu þeim annadhvørt vopn edur

fé, edur hvorttveggja. Einn af þeim mönnum er [...] kom til lids vid Grikki, var hid vidfræga enska sk[...] Byron lávardur. Hann vardi fé og fjörvi til hjál[...] Grikkjum, og orkti kvædi um hreysti þeirra og fra[...] gaungu. Hann andadist í Mesólongí 1824, og va[...] Grikkjum mjög harmdaudur. Margir komu og adr[...] menn til Grikkja, hér nordan úr álfunni, og geng[...] lid med þeim, þótt ekki séu þeir hér nefndir. En e[...] Soldán sá, ad hann mundi ekki af sínum ramleik [...] ast á Grikkjum, tók hann þad ráð, ad fela Ala, jarl[...] sínum á Egyptalandi á hendur, ad leida til lykta [...] fridinn á Grikklandi, og snúa þjódinni aptur til hlýdni vid sig. Sendi Ali jarl þegar son sinn, Ibrahim (1825) kappa mikinn, med her manns til Pelopseyar. Fór Ibrahim yfir landid sem logi yfir akur, og fengu Grikkir ekki rönd vid reist. Þá var og sundurþykki nokkurt med Grikkjum innbyrdis, og vard því minni vörn þeirra á landi enn vera mátti. Þá settust Tyrkir og Egyptalandsmenn um Mesólongí, vördust Grikkir þar enn af dæmafárri hreysti, en um sídir unnu fjendur þeirra borgina. Brutust ádur margir af borgarmönnum út ígegnum fylkingar Tyrkja, og komust vel undan til landa sinna á ödrum stödum.

Þessu næst tóku stjórnendur Breta og Frakka að bera ráð sín saman, til ad gjöra endir á ófridi þessum, var þad bædi ad þeir dádust ad hreysti og framkvæmdum Grikkja, enda áttu þá Grikkir marga góda menn ad, er veittu þeim ad máli hjá höfdingjum þessum. Þá var og grimd Tyrkja svo vidurstyggileg í augum

kristinna manna, ad þeir gátu ekki horft á adgjördalausi
r, ad þeir eyddu, og brytu undir sig slíka þjód sem
Grikki. Þá var hinn mikli stjórnarvitríngur Kanníng
uppi á Englandi, kom hann því til leidar, ad Wellíng-
ton hertogi var sendur til Rússlands (1826), þess er-
indis, ad tala máli Grikkja hjá Nikuláfi keisara, er
þá var settstur ad völdum eptir Alexander keisara, bródr
ur sinn, og fá hann til ad gánga í félag med Bretum
og Frökkum og sefa ófridinn milli Tyrkja og Grikkja.
Árid eptir (6 Júl. 1827) gjördu þessar 3 þjódir samn-
íng med sér í Lundúnaborg; skyldi Soldán annadhvert
med gódu edur íllu vidurkennast þjódfrelsi Grikkja, þó svo,
ad skatt skyldi honum gjalda á ári hverju af landinu.
En Soldán tók því öllu saman fjærri. Medan þessu
fór fram, hafdi Ibrahim unnid undir sig lönd og borg-
ir frá Grikkjum, og midur gekk þeim nú í sjóorrustum
enn ádur, olli því hvorutveggja, sundurþykki med höfd-
íngjum Grikkja. Um þær mundir var ad sönnu hinn
enski herskipaforíngi Cochrane, hinn mesti kappi, ordinn
ædstur foríngi fyrir herskipum Grikkja, en þó hann
tæki mörg skip og eyddi fyrir Tyrkjum, var þó lidur-
munur svo mikill ad útgjört mundi um Grikki, ef
Bretar, Frakkar og Rússar hefdu þá ekki skorist í leik-
inn. Tyrkir gjördu þá vopnahlé vid Grikki, en er
minnst vardi rufu Tyrkir þann samníng og hófu ófrid
ad nýu. Tyrkir og Egyptalandsmenn höfdu lagt flota
sínum inná Navarínar höfn, og voru á annad hundr-
ad skipa. Þar komu Sambandsmenn ad þeim (20ta
Okt. 1827). Fengu Frakkar og Rússar eigum enska

fridt innan ríkis og reisti skóla í landinu. Átti hann vid marga ad strída, því bædi voru Grikkir gjarnir á óspektir, og líka vantadi hann fé til þess er framkvæma þurfti. Medan stridid stód yfir, höfdu menn ákvedid, ad landamerki Grikklands skyldu, ad nordanverdu, gánga frá Vólófirdi vestur í Artafjörd; og á fridnum í Hadríansborg 1829, samþykktist Soldán þad. Sídan breyttu menn þessu svo: ad Grikkland skyldi vera ríki fyrir sig, landamerkin þokast lítid eitt sudrá, Grikkland, Krítey og Samos koma á vald Tyrkja. Þá budu þeir og Leópoldi frá Saxa-Kóburg konúngdóm á Grikklandi; en hann vildi eigi þyggja, einkum af því honum þókti þeir færa landamerkin of mjög inná landid ad nordanverdu. Hafdi þá Kapódistría landstjórn á hendi sem ádur, til þess er flokkur manna hófst móti honum, þókti þeim mönnum hann gjörast of einrádur, og hallda of mjög fortölum Rússa, og þar kom, ad þeir sátu um líf hans, og veittu honum bana (7da Okt. 1831). Litlu sídar kjöru bandamenn, (Bretar, Frakkar og Rússar) Ottó Lodvíksson af Bæaralandi til konúngs yfir Grikkland. Hefir hann þegar setid þar ad völdum nokkur ár, og komid á samlyndi, og betri skipan á mörgu. Ottó konúngur situr í Atenuborg, og rís hún nú aptur úr rústum sínum eptir lángan aldur.

## Frá Stjórnarbiltíngunni á Frakklandi 1830.

### (Juli-Revolutionen).

Þegar höfdíngjaskipti urdu á Frakklandi árid 1814, og Napóleon keisari vard ad láta af stjórn, en

kom til ríkis Lodvík konúngur enn 18di, var þad á lögum gjört þar í landi, ad takmarka skyldi konúngsvaldid, og þjódin ega þátt í allri landsstjórn med konúnginum. Vard þad med þeim hætti: ad hvortirtveggju skyldu kjósa menn fyrir sína hönd, konúngur og landsfólkid; skyldu þeir enir kosnu menn ráda lögum med konúngi. Þá menn sem þjódin velur hafa menn kallad þjódarfulltrúa, en þá konúngsfulltrúa er konúngur kýs *).

Nú var vid því ad búast, eins og raun gaf sídar vitni, ad þjódin mundi tvískipta sér, og mundu sumir halda fram konúngs máli (Royalistar, konúngsmenn), en sumir þjódar máli (Liberalistar, frelsis menn). Urdu svo mikil brögd ad því, ad nokkrir menn sórust í félag til ad drepa konúnginn og ættmenn hans. Madur hét Lúvel, hann var södlasmidur, hann vann þad fólskuverk (1820) ad hann myrdti hertogann frá Berry, bródursón Lodvíks konúngs enns 18da. Urdu þá konúngs menn óvægir, og krepptu nokkud ad mótstödumönnum sínum, frelsisvinunum. Ár 1824 deydi Lodvík konúngur enn 18di. Tók þá ríki eptir hann, Karl bródir hans, hinn 10di med því nafni. Hugdu menn all gott til ríkisstjórnar hans, var þad og eitt hid fyrsta sem hann adhafdist, er hann var settstur ad völdum, ad hann veitti þjódinni aptur prentfrelsi. En litlu ádur

*) Konúngsfulltrúar (Pairar, Jafníngjar) á Frakklandi ega þíngsetu sér í Jafníngjastofunni (Pairskammeret), eins og Lávardarnir í efrimálstofunni á Englandi; en þjódfulltrúarnir (de Deputerede) í þjódmannastofunni (de Deputeredes Kammer), einsog alþýdufulltrúarnir í nedri málstofunni

hafdi þad verid tekid af honni. Ari sídar bátu stjórnarherrar upp vid fulltrúa, frumvarp eitt, er laut ad því, ad höfdíngjar þeir er farid höfdu af landi burt í stjórnarbiltíngunni miklu, fengju 1000 milliónir fránka í skadabætur. Frumvarpid vard mjög óvinsælt hjá alþýdu, sem pid var ad búast, en fulltrúar féllust þó á þad. Um þær mundir reyndi og enn kotólski kennilýdur og kristmúnkar ad ná enum sömu völdum, sem þeir höfdu fyrr haft þar í landi. Studdi stjórnarrád konúngs ad þessu hvorutveggju af miklu kappi. Sá hét Villele er ædstur var í því rádi. Gjördist hann svo óvinsæll, ad honum vord ekki vært, og svo lauk, ad konúngur kvaddi hann og alla samstjórnendur hans frá völdum. Kom þá annad stjórnarrád í þeirra stad, og var þad vinsælla hjá alþýdu. Stjórnarrád þetta kom því til leidar ad Frakkar sendu herlid til Pelopseyar, til ad reka þadan Ibrahim ílla, eins og ádur er sagt, og var þad hid þarfasta verk. En stjórnarherrar þessir komust í mikinn óþokka hjá klerkum og konúngi, og er minnst vardi svipti konúngur þá völdum, og setti annad stjórnarrád í stadinn. Sá hét Polignak er efstur sat í því rádi, þótti mönnum þad all ill umskipti, og sögdu margir alþýduvinir af sér völdum sínum. Leitudst þá enir nýu stjórnarherrar vid, ad fá nokkra menn af alþýdu flokki í lid med sér, en enginn vildi verda til. Hugdu menn nú ad stjórnarrádid mundi draga öll völd úr höndum alþýdunnar og fá konúngi í hendur, urdu þá margir skorinordir um þad í dagblödum og tímaritum, en þad leiddi aptur til þess, ad margir voru dæmdir í fébætur fyrir

an landsfólkinu í hungri ánauð, því nær um 4 aldir. Mátti það sviða Grikkjum því sárar, sem þeir höfðu erft marga af mannkostum forfeðra sinna, bæði hugvit, frelsis anda og hreysti, en hviklyndir voru þeir og metordagjarnir og tortryggir sem forfeður þeirra, enir víðfrægu Forn-Grikkir. Hinsvegar voru Tyrkir fákænir í mörgu, en héldu fast við forna villu feðra sinna, og þóktust upp úr því vaxnir að nema siðu annara þjóða, enn þótt betri væru. Voru valla tvær þjóðir hvor annari ólíkari enn Tyrkir og Grikkir. Má af slíku ráða, að Grikkir hafi ekki sem best unað hag sínum, og borið harm sinn í hljóði, allt til þess tíma er höfundi þjóðanna þókti mál komið, að þeir tæki til starfa, og brytu af sér þrældóms ok Tyrkja.

Ár 1814 stofnuðu nokkrir menn grískir félag það, er þeir kölluðu Vinafélag (Hetæria). Miðaði það í öndverðu einúngis til að efla vísindi, meðal Grikkja, en síðan létu félagsbræður sér einkum annt um að snúa hugarfari landa sinna til stjórnar málefna Grikklands. Sást og vottur þess, þá er ófriðurinn hófst, hvörsu vel þaim hafði orðið ágengt.

Alexander Ypsilanti er maður nefndur, hann var grískur að ætt, en hafði verið hershöfðingi í liði Rússakeisara; hann gjörðist oddviti að því, að Grikkir hófu uppreist móti Tyrkjum í Moldáar fylki. Það er norðast á Tyrkjalöndum. Þetta varð tíðinda öndverðlega á árinu 1821. Skoraði Ypsilanti á Grikki, að þeir skyldu varpa af sér ánauðar oki Tyrkja, og kvað Rússa mundu verða því meðmælta. En sem Alex-

ander Rússakeisara kemur sú fregn, bráſt hann reidur vid, rekur Ypsilanta úr tølu hermanna ſinna, en gjørir Soldáni þau ord, ad hann megi óhultur treyſta á vináttu ſína, og engan hlut vilji hann ega ad máli Grikkja. Nú ſem Soldán frèttir ad Grikkir hafa hlaupid upp til ófridar vid ſig, verdur hann ákaflega reidur, og hyggſt ad brjóta uppreiſtarmenn til hlýdni vid ſig, þegar í ſtad. Sendir nú her manns í móti þeim, og fara Tyrkir fram med ſkélfilegri grimmd, og drepa hvørt mannsbarn af Grikkjum er þeir ná. Atti Ypsilanti orruſtur vid Tyrki, og lauk ſvo, ad hann beid óſigur; féllu nálega allir menn hans, en ſjálfur komſt hann undan á flótta til Auſturríkis; þar var honum ſvo tekid ad hann var ſettur í vardhald. Ar 1828 var honum gefid frelſi, og á því ári andadiſt hann. En þótt Tyrkjum tækiſt ad kúga uppreiſtarmenn í Moldáar fylki og Vallakkíu, hófſt um ſømu mundir ófridur mikill á Pelopsey (Peloponnesos, Mórea), og á eyunum í Grikklandshafi, og þann ófrid fengu Tyrkir ekki ſefad. Fyrſt tóku þeir þad rád, ad ná med brøgdum øllum høfdingjum Grikkja á Pelopsey, á ſitt vald, og annadhvørt drepa þá, edur halda í fjøtrum, og fyrir því ſtefndu þeir þeim til fundar í Tripólizа, høfudborg þar í landi. Voru þeir og margir er þann veg létu leida ſig, en Germanos erkibiſkup, ſá vid Tyrkjum, og fer hann ekki til fundarins, heldur ſtefnir ad ſér lidi og hefur uppreiſtina. Komu þá til lids vid hann høfdingjar 2, Kolokotróni og Máromikkalí, med ſveit manna. Lýſtu þeir því yfir: ad

Grikkir höfdu hugfest ad brjóta af sér ok Tyrkja, og hefja ad nýu Grikkjaveldi hid forna, og beiddu því kristna menn í Nordurálfu ad senda sér vopn og fé, og leggja sér góð ráð. Tóku menn all misjafnlega undir það. Þjódirnar glöddust í hjarta og bádu heils-ishetjunum alls góðs til handa, en höfdingjar þjód-anna, þeir er halda vildu öllum í ánauð, sögðu á reidi sína, kölludu Grikki uppþlaupsmenn og spillvirkja og ýms-um illum nöfnum. Og ekki var sendimönnum Grikkja leyft ad bera upp erindi sín á fundinum í Veróna. En á þeim fundi sátu ríkustu þjódhöfdingjar Nordur-álfunnar. Vid árslokin (1821) höfdu Grikkir unnið undir sig nálega allar borgir á Pelopsey, drepið Tyrki edur hrakid úr landi. Kusu þeir þá sjálfir stjórnend-ur sína. Höfdu þeir menn adsetur sitt fyrst í Argos, því næst í Korintuborg og sídan í Náplía-borg (Napoli di Romania). Um þær mundir sem Grikkir höfu ófrid á landi uppi, hlupu eyamenn til vopna á Grikklands eyum (einkum á Hýdra-ey, Spezzía, Ipsara, Tíne og Samos-ey). Eyamenn voru kaup-menn miklir og skipasmidir, og áttu aud fjár. Kaup-skip þeirra voru svo gjörð ad hafa mátti í orrustur í vidlögum. Ádur enn menn vardi höfdu eyamenn vopn-ad 180 skip, voru það á margir vaskir menn og fengu Tyrkir ad kenna á hreysti þeirra og hardfengi; eyddu þeir mörg skip fyrir Tyrkjum, en tóku vistir þeirra og fé. Ári fyrr enn Grikkir höfu frelsisstrídid, ófridadist med þeim Alí jarli í Janínaborg og Soldáni. Kom það Grikkjum mjög í gódar þarfir, því Soldán vard

ad skilnast vid Alí; stód sá ófridur 2 ár til þess er Alí jarl var af dögum rádinn. Snérust þá Tyrkir vid Grikkjum med miklu ofurefli, og sóttu ad þeim bædi á sjó og landi. Sendi Soldán ædsta herskipa foríngja sinn, hann er Kapúdan Paska kallast á tyrknesku, med flota mikinn til Pélopseyar. Setti hann þar á land herlid mikid, en hélt skipum sínum til Kíeyar (Chíós), gekk þar á land og gjördi hid mesta hervirki. Ætladi sídan ad herja um fleiri eyar Grikkja, en honum audnadist þad ekki. Madur hét Stefán Kanaris, hann var fæddur þar á eyunum. Hann var hinn mesti kappi. Hann fór á brennuskútum þremur þar ad, sem floti Tyrkja lág fyrir akkerum á Kíeyar-sundi, lagdi ad foríngja skipinu, og kveikti í. Flaug skipid í lopt upp, og fórust þar á 2800 manns af Tyrkjum. Kapudan Paska vard sár til ólífis og dó litlu sídar. Brenndu Grikkir þar fleiri skip fyrir Tyrkjum. Í þad mund var ófridurinn sem mestur á landi. Héldu Tyrkir her sínum nordan ad Laugaskardi (Thermopylæ). Þar kom til móts vid þá kappi sá, er Odysseifur hét, átti hann vid þá orrustu harda, og komust Tyrkir ekki yfir skardid. Margir voru þá uppi adrir menn á Grikklandi, er vördu fjör og frelsi þjódar sinnar og nádu mikilli frægd. Má hér til þess nefna: Demetríus Ypsilantí, Nikítas, Márakordató og Markús Bozzarí. Þeir tveir, enir sídastnefndu, vördu Mesólongi-borg af mikilli hreysti. Flaug ordstír þeirra um alla Nordurálfu, og gjördust þá margir til ad lidsinna Grikkjum, og sendu þeim annadhvört vopn edur

sé, eđur hvortveggja. Einn af þeim mönnum er þá kom til liđs viđ Grikki, var hiđ víđfræga enska skáld Býron lávarđur. Hann varđi fé og fjöri til hjálpar Grikkjum, og orkti kvæđi um hreysti þeirra og framgaungu. Hann andađist í Messólongí 1824, og varđ Grikkjum mjög harmdauđur. Margir komu ogađrir menn til Grikkja, hér norđan úr álfunni, og gengu í liđ međ þeim, þótt ekki séu þeir hér nefndir. En er Soldán sá, ađ hann mundi ekki af sínum ramleik sigrast á Grikkjum, tók hann þađ ráđ, ađ fela Ala, jarli sínum á Egyptalandi á hendur, ađ leiđa til lykta ó-friđinn á Grikklandi, og snúa þjóđinni aptur til hlýđni viđ sig. Sendi Ali jarl þegar son sinn, Ibrahim (1825) kappa mikinn, međ her manns til Pelopseyar. Fór Ibrahim yfir landiđ sem logi yfir akur, og fengu Grikkir ekki rönd viđ reist. Þá var og sundurþykki nokkurt međ Grikkjum innbyrđis, og varđ því minni vörn þeirra á landi enn vera mátti. Þá settust Tyrkir og Egyptalandsmenn um Messólongí, vörđust Grikkir þar enn af dæmafárri hreysti, en um síđir unnu fjendur þeirra borgina. Brutust áđur margir af borgarmönnum út ígegnum fylkingar Tyrkja, og komust vel undan til landa sinna á öđrum stöđum.

Þessu næst tóku stjórnendur Breta og Frakka ađ bera ráđ sín saman, til ađ gjöra endir á ófriđi þessum, var þađ bæđi ađ þeir dáđust ađ hreysti og framkvæmdum Grikkja, ænda áttu þá Grikkir marga góđa menn ađ, er veittu þeim ađ máli hjá höfđingjum þessum. Þá var og grimd Tyrkja svo viđurstyggileg í augum

kristinna manna, ad þeir gátu ekki horft á adþjódalandir, ad þeir eyddu, og brytu undir sig slíka þjód sem Grikki. Þá var hinn mikli stjórnarvitríngur Kanníng uppi á Englandi, kom hann því til leidar, ad Wellíngton hertogi var sendur til Rússlands (1826), þess erindis, ad tala máli Grikkja hjá Nikulási keisara, er þá var settstur ad völdum eptir Alexander keisara, bródur sinn, og fá hann til ad gánga í félag med Bretum og Frökkum og sefa ófridinn milli Tyrkja og Grikkja. Árid eptir (6 Júl. 1827) gjördu þessar 3 þjódir samníng med sér í Lundúnaborg; skyldi Soldán annadhvort med gódu edur íllu vidurkennast þjódfrelsi Grikkja, þó svo, ad skatt skyldi honum gjalda á ári hverju af landinu. En Soldán tók því öllu saman fjærri. Medan þessu fór fram, hafdi Ibrahim unnid undir sig lönd og borgir frá Grikkjum, og midur gekk þeim nú í sjóorrustum enn ádur, olli því hvörutveggja, sundurþykki med hvördíngjum Grikkja. Um þær mundir var ad sönnu hinn enski herskipaforíngi Cochrane, hinn mesti kappi, ordinn ædstur foríngi fyrir herskipum Grikkja, en þó hann tæki mörg skip og eyddi fyrir Tyrkjum, var þó lidsmunur svo mikill ad útgjört mundi um Grikki, ef Bretar, Frakkar og Rússar hefdu þá ekki skorist í leikinn. Tyrkir gjördu þá vopnahlé vid Grikki, en er minnst vardi rufu Tyrkir þann samníng og hófu ófrid ad nýu. Tyrkir og Egyptalandsmenn höfdu lagt flota sínum inná Navarínar höfn, og voru á annad hundrad skipa. Þar komu Sambandsmenn ad þeim (20ta Okt. 1827). Fengu Frakkar og Rússar enum enska

hershöfðingja Kodríngtoni í hendur, er æðstu yfirráð hafði yfir öllum skipahernum. En er Kodríngton hefir lagt skip sín í lagi, og umbúist, sendir hann mann á fund hins tyrkneska foríngja. Var sendiboðinn þar viðtekinn hjá Tyrkjum, að þeir skjóta hann til bana. Þá lét Kodríngton blása til atlögu öllum skipum sínum, og tókst þar ein harðasta orrusta. Vörðust Tyrkir vel og drengilega, en svo lauk að kristnir menn fengu mikinn sigur, og komst ein 16 skip af öllum Tyrkja flota undan, og þó illa til reika. En sem Soldán frétti ófarir herskipa sinna, segir hann sig lausan allra mála við Breta, Frakka og Rússa; og litlu síðar (í April mán. 1828) hóf hann ófrið við Rússa. Urðu Tyrkir mjög undir í þeim viðskiptum. Mundu þá Rússar hafa lagt undir sig allt Tyrkjaveldi, nema friður hefði áður komist á. (í Hadriansborg 1829). Sumarið 1828 sendu Frakkar herlið til Pelopseyjar, til að reka Íbrahim burtu af landi. Maison stallari (marskálkur) stýrði því liði. Lauk svo með þeim að Íbrahim varð undan að láta, og snéri heim á Egyptaland með liðsmenn sína, um haustið. Þóttu Frakkar hafa gjört góða landhreinsun á Pelopsey. Eptir það unnu Grikkir aptur nokkrar borgir frá Tyrkjum. Árið 1827 tóku Grikkir til landstjóra (ríkisforseta. President) yfir sig, höfðingja þann er Kapódistria hét, hann var grískur að ætt, og hafði áður verið einn af ráðgjöfum Rússakeisara. Hann var vitur maður og framtakssamur, og leitaðist við að færa alla hluti til betra vegar, hann hnekkti víkingum öllum í Grikklandshafi, helt á

fridi innan ríkis og reisti skóla í landinu. Átti hann vid margt ad strída, því bædi voru Grikkir gjarnir á óspektir, og líka vantadi hann fé til þess er framkvæma þurfti. Medan strídid stód yfir, höfdu menn ákvedid, ad landamerki Grikklands skyldu, ad nordanverdu, gánga frá Vólósfirdi, vestur í Artafjörd; og á fridnum í Hadríansborg 1829, samþykktist Soldán þad. Sídan breyttu menn þessu svo: ad Grikkland skyldi vera ríki fyrir sig, landamerkin þokast lítid eitt sudrá, Grikkland, Krítey og Samos koma á vald Tyrkja. Þá budu þeir og Leópoldi frá Saxa-Kóburg konúngdóm á Grikklandi, en hann vildi eigi þyggja, einkum af því honum þókti þeir færa landamerkin of mjög inná landid ad nordanverdu. Hafdi þá Kapódistría landstjórn á hendi sem ádur, til þess er flokkur manna hófst móti honum, þókti þeim mönnum hann gjörast of einrádur, og hlýda of mjög fortölum Rússa, og þar kom, ad þeir sátu um líf hans, og veittu honum bana (7da Okt. 1831). Litlu sídar kjöru bandamenn, (Bretar, Frakkar og Rússar) Ottó Lodvíksson af Bæaralandi til konúngs yfir Grikkland. Hefir hann þegar setid þar ad völdum nokkur ár, og komid á samlyndi, og betri skipan á mörgu. Ottó konúngur situr í Atenuborg, og rís hún nú aptur úr rústum sínum eptir lángan aldur.

## Frá Stjórnarbiltíngunni á Fracklandi 1830.

(Juli-Revolutionen).

Þegar höfdíngjaskipti urdu á Fracklandi árid 1814, og Napóleon keisari vard ad láta af stjórn, en

kom til ríkis Loðvík konúngur enn 18di, var það að lögum gjort þar í landi, að takmarka skyldi konúngsvaldið, og þjóðin ega þátt í allri landsstjórn með konúnginum. Varð það með þeim hætti: að hvortirtveggju skyldu kjósa menn fyrir sína hönd, konúngur og landsfólkið; skyldu þeir enir kosnu menn ráða lögum með konúngi. Þá menn sem þjóðin velur hafa menn kallað þjóðarfulltrúa, en þá konúngsfulltrúa er konúngur kýs *).

Nú var við því að búast, eins og raun gaf síðar vitni, að þjóðin mundi tvískipta sér, og mundu sumir halda fram konúngs máli (Royalistar, konúngsmenn), en sumir þjóðar máli (Liberalistar, frelsis menn). Urðu svo mikil brögð að því, að nokkrir menn sórust í félag til að drepa konúnginn og ættmenn hans. Maður hét Lúvel, hann var söðlasmiður, hann vann það fólskuverk (1820) að hann myrdti hertogann frá Berry, bróðurson Loðvíks konúngs enns 18da. Urðu þá konúngs menn ówægir, og kreppdu nokkuð að mótstöðumönnum sínum, frelsisvinunum. Ár 1824 deyði Loðvík konúngur enn 18di. Tók þá ríki eptir hann, Karl bróðir hans, hinn 10di með því nafni. Hugðu menn all gott til ríkisstjórnar hans, var það og eitt hið fyrsta sem hann aðhafdist, er hann var settur að völdum, að hann veitti þjóðinni aptur prentfrelsi. En litlu áður

---

*) Konúngsfulltrúar (Pairar, Jafníngjar) á Frakklandi, ega þingsetu sér í Jafníngjastofunni (Pairskammeret), eins og Lávarðarnir í efrimálstofunni á Englandi; en þjóðfulltrúarnir (de Deputerede) í þjóðmannastofunni (de Deputeredes Kammer), einsog alþýðufulltrúarnir í neðri málstofunni.

hafdi þad verid tekid af henni. Ari sídar báru stjórnarherrar upp vid fulltrúa, frumvarp eitt, er laut ad því, ad höfdíngjar þeir er farid höfdu af landi burt í stjórnarbiltíngunni miklu, fengju 1000 milliónir fránka í skadabætur. Frumvarpid vard mjög óvinsælt hjá alþýdu, sem vid var ad búast, en fulltrúar féllust þó á þad. Um þær mundir reyndi og enn kotólski kennilýdur og kristmúnkar ad ná enum sömu völdum, sem þeir höfdu fyrr haft þar í landi. Studdi stjórnarrád konúngs ad þessu hvorutveggju af miklu kappi. Sá hét Villele er ædstur var í því rádi. Gjördist hann svo óvinsæll, ad honum vord ekki vært, og svo lauk, ad konúngur kvaddi hann og alla samstjórnendur hans frá völdum. Kom þá annad stjórnarrád í þeirra stad, og var þad vinsælla hjá alþýdu. Stjórnarrád þetta kom því til leidar ad Frakkar sendu herlid til Pelopseyar, til ad reka þadan Ibrahim illa, eins og ádur er sagt, og var þad hid þarfasta verk. En stjórnarherrar þessir komust í mikinn óþokka hjá klerkum og konúngi, og er minnst vardi svipti konúngur þá völdum, og setti annad stjórnarrád í staðinn. Sá hét Polignak er efstur sat í því rádi, þótti mönnum þad allt ill umskipti, og sögdu margir alþýduvinir af sér völdum sínum. Leitudst þá enir nýu stjórnarherrar vid, ad fá nokkra menn af alþýdu flokki í lid med sér, en enginn vildi verda til. Hugdu menn nú ad stjórnarrádid mundi draga öll völd úr höndum alþýdunnar og fá konúngi í hendur, urdu þá margir skorinordir um þad í dagblödum og tímaritum, en þad leiddi aptur til þess, ad margir voru dæmdir í fébætur fyrir

vrd sín, og þókti nú óvænlega áhorfast. Margir frels- is vinir tóku sig saman um, ad eigi skyldu þeir gjalda skatta, ef stjórnarskránni yrdi breytt. Bidu menn nú þess tíma ad stefnt yrdi til fulltrúaþíngs, og þókust marg- ir sjá fyrir ad verda mundi nokkud sögulegt. Vorid 1830 setti konúngur sjálfur fulltrúa þíngid, og sagdi svo: ad hann efadist ekki um, ad fulltrúar vildu styrkja sig til enns góda, en rækist svo til, ad sér yrdi mótspyrna synd, kvadst hann hafa næg rád og nógan mátt til ad hafa sitt fram. Fulltrúar svörudu konúngi, og var þetta eitt í svöri þeirra: ad landstjórnarskráin hefdi ladi þjódinni rétt til ad rádgast um alþjódleg málefni lands- ins, réttur þessi væri umgirdtur nákvæmum takmörkum og mundu menn ekki una því, ad þeim yrdi raskad. Stjórnin tortryggdi landsfólkid án sakar, og fengi þad þjódinni áhyggju mikillar, því slík tortryggni væri henni til óvirdíngar, kvádust bera þad traust til konúngs, ad hann rétti vid aptur samlyndi milli sín og þjódarinnar, þar honum væri þad innanhandar. Litlu sídar baud Karl konúngur ad skjóta á frest fulltrúaþínginu til hausts. Slett þá þínginu vid þad, med miklum þys og óhljódum.

25ta dag Júlí mán. 1830 lýsti Karl konúngur því yfir, ad hann hefdi ónýtt prentfrelsis lögin í ríki sínu, og gjört ræka þjódfulltrúana, skyldi því kjósa adra í þeirra stad, eptir ödrum lögum enn ádur hefdi verid.

Vid þessi tídindi urdu menn hljódir mjög í Par- ísarborg, og þókti konúngur færast mikid í fáng. Þeir menn sem störfudu ad dagblödum og tímaritum, urdu fyrstir til ad gjöra nokkra mótstödu. Gjördu þeir þad

segir hvervetna kunnugt ad hollusta og hlýdni vid Karl konúng væri engin skyldu kvattur, þar hann hefdi svo stórkostlega rofid eida sína og raskad stjórnarskránni. Fyrir þá sök eggjudu þeir þjódina til øflugrar mótstødu, og jafnframt því treystu þeir þjódfulltrúum til ad vernda frelsi og réttindi landsmanna, og láta ekki vidgángast ad konúngur trædi þad fótum. Þá reis upp múgur manns í Parísarborg, og fóru menn hópum saman um borgarstrætin, en høfdust ekki ad, fyrr enn konúngsmenn komu til og skutu á þá. Tóku þá borgarmenn á móti, og vørdu sig med grjóti, féllu þá manna nokkrir, en margir urdu sárir. Daginn eptir, (27. Júlí) ná øndverdum degi, hófst upprestin algjørlega. Vopnudust menn þá, sløkktu ljós øll á strætum úti, og felldu hérvidu millum húsa. Vard þá riddaralid konúngs mjøg ógreidt yfirferdar. Konúngur flýdi þegar úr borginni med hird sína, en setti Marmont hershøfdíngja yfir herlidid, og skyldi hann sefa med því upphlaup borgarmanna. Var þad ekki audgert, því borgarmenn voru allir einshugar og enir hardsnúnustu, svo gekk og þjódvørdurinn (Nationalgarden) í lid med þeim, og tveir enir ágætstu hershøfdíngjar La Fayette og Gérard. Var nú barist ákaflega í 2 daga, og ad kvøldi ens 29da Júlí, høfdu borgarmenn allstadar borid hærra hlut, en konúngsmenn annadhvørt hrokkid fyrir, edur gengid í lid med þeim. Sagt er ad 2 þúsundir hafi fallid af borgarmønnum, en nokkru færra af konúngsmønnum. Þann 30ta Júlí ráku borgarmenn Karl konúng

frá völdum, og tóku ad semja um nýa ríkisstjórn. Urdu þeir flestir er mæltu med takmarkadri konúngsstjórn, og skyldi Lodvík Filippus hertogi, af Orleans ætt, (sonur Lodvíks Egalité er hálshögginn var í stjórnarbiltíngunni miklu, 1793) takast ríkisforrád á hendur á Frakklandi fyrst um sinn. En svo lauk, ad þjódarfulltrúar kjöru hertogann til konúngs. Þág Filippus hertogi þad, og vann stjórnarskránni, med þeirri umbót sem þá var gjörd, trúnadareid 9da dag Agúst mánadar. Hann er kalladur Lodvík Filippus hinn 1ti; hefir hann stjórnad med mikilli stillíngu og stadfestu, og þykir vera enn vitrasti höfdingi.

Þessi hin merkilega stjórnarbiltíng vakti margar þjódir í Nordurálfunni af dvala þeim, er þær höfdu verid í um stund, urdu einkum ad því mikil brögd á Pólínalandi og í Belgíu. Og má med sanni segja, ad sá atburdur hefji nýtt tímabil í sögu mannkynsins.



